# OECONOMIA CHRISTIANA

edur

# Húss Tabla

sem sérhvørjum í sinu standi þann rétta kristindóms veg fyrir sjónir leidir,

í ljódmæli samsett

af

þeim heidursverduga og hágáfada Guds manni

Síra Jóni Magnússyni

fordum sóknar presti ad Laufási.

3ja Utgáfa eptir þeirri í Hrappsey útkomnu 1774.

---


Videyar Klaustri,

Prentud á kostnad Síra E. B. Sivertsens.

1842.

# Góðfús Lesari!

Dygd og dygdir heyra menn opt nefndar, en sjaldan heyra menn skilmerkilega útmálad hvad dygdin sé, máské af því, ad heimsspekíngar hafa mest um hana høndlad undir þessu nafni; en þad þykir sumum vandi og jafnvel háski ad fylgja þeirra kénníngum; þarf þó aungvann háska ad óttast í þessu efni, því dygdin er rétt køllud lyst til ad gjøra Guds vilja. Lyst merkir hér ei einasta eptirlángan heldur og íþrótt edur vana, sem nefnist á latínu habitus. Hefur sá einginn eptirlángan til nokkurs hlutar, sem ei hefur vilja til ad ydka hann, og því er þad máltak: ad þad sé hvørs eins lyst sem hann leikur. Vilja Guds þekkja menn med tvennu móti, annadhvørt af náttúrunnar ljósi edur opinberíngarinnar. Þad menn þekkja af náttúrunnar ljósi, þad er náttúrunnar løgmál, en sína setnínga hefur Gud þar fyrir utan mønnunum kunngjørt; þar fyrir, hvør sem ydkar sig í því,

ad lifa eptir náttúrunnar løgmáli, hann gjørir dygdina, og er hér þá komin óbrjálud heimsspekínganna útleggíng yfir hana.

Tilgángur Guds í øllum sínum bodordum er hans dýrd, og mannanna velferd. Og svo sem sá helsti tilgángur Guds í øllu er hans dýrd, svo er og mannanna tilgángur í øllu þeirra eigin velferd, og á mis vid hana fara þeir aldrei, sem stunda dygdina. Dygdin er sín eigin laun, og hvør sem hana ydkar, finnur þar af slíkt yndæli, ad jafnvel heidíngjar, sem ei hafa vitad af þeim fyrirheitum, sem kristnir menn hafa, ydkudu þó dygdina.

Náttúrunnar hlaupi hefur Gud svo dásamlega skipad, ad hvør sá sem ydkar dygdina, þad er: stundar ad lifa eptir náttúrunnar løgmáli, hann hinn sami hefur gott af því; þar þvert á móti hefur hvør sá íllt af því, sem ydkar ódygd og løstu þá, sem náttúrunnar løgmál bannar. Svo hefur sá hóffsami rólega gédsmuni og góda heilbrygdi, hinn óhóffsami órólega gédsmuni og optast bága heilsu, er þar og øll orsøk til, fyrir því ad ekkért er svo heilnæmt líkamanum, sem rólegir gédsmunir, og ekkért svo óheilnæmt, sem þeir hinir sømu órólegir. Þetta fundu og sáu margir heidnir menn, og þó þeir ei sonnann Gud þekktu, gjørdu þeir þó óvitandi Guds vilja; og má því ei væna þá þeim heidri, ad þeir hafi dygdina ydkad.

Setníngu sína hefur Gud opinberad mønnunum bædi í Gamla og Nýa Testamentinu, og fylgdu þeim jafnan fyrirheit; í því gamla Testamenti áhrærdu þau mjøg svo líkamlega farsæld; en í því nýa testamenti voru þad meira andleg og eilíf gjædi, sem þeim voru heitin, er gjørdu Guds vilja; þó voru þar ei fráskilin líkamleg gjædi, því þad sem Gud hafdi lofad í gamla testamentinu, tók hann ekki aptur í því nýa, heldur lagdi hin til med frekari mælíng, sérdeilis fyrir því, ad hinir fyrstu kristnu gátu ei allra þeirra tímanlegu gjæda notid, sem dygdinni edur góðverkunum fylgja, vegna þess ad þeir voru af vondum mønnum, hatadir og ofsóktir, urdu þad því ad vera andleg og eilíf gjædi, sem þeir skyldu fyrirgángast. Því víst er þad, ad einginn gjørir annars skipan hvørki Guds né manna, utan hann fyrir einhvørju gángist, eins sá, sem óttast hegníng og áløgur, geingst fyrir því, ad fríast frá áløgunum. Tilgángur Guds í øllum hlutum er hans dýrd, og svo sem hann vill sína dýrd, svo vilja og þeir skøpudu andar sína farsæld; en þetta verdur ei adskilid, því hvør sá sem stundar Guds dýrd, hann stundar og sína eigin velferd.

Fyrir því nú ad þær orsakir, sem knýa mann til ad ydka dygdina, eru ei med einu móti,

svo fær dygdin þar af nokkra adgreining. Sumir ydka dygdina vegna þeirra náttúrlegu gjæda, sem hún af sér leidir. Adrir og eiginlega kristnir ydka hana vegna þess, ad Gud hefur hana bodid, en allir af því, ad þeir elska sjálfa sig. Því einginn elskar sjálfann sig meir enn sá, sem elskar Gud af øllu hjarta, af allri sál, af øllum mætti og øllu hugskoti. Sá sem mest elskar adra nærst Gudi, hann elskar mest sjálfann sig. Og þessi sjálfs elska er dygd. Hin ædsta trappa dygdarinnar er elskan til Guds, hin ønnur er elskan til náúngans, en hún hefur aptur margar trøppur. Sú ædsta trappa í náúngans kjærleika er elska til fødurlandsins, ag hana kallar Montesqvieu sérílagi dygd.

Fødurlands elsku heyra menn einatt nefnda; en hvørt þar er alltíd dygdin med meint, má stórum efa. Catilina, Cæsar, Cato, allir þessir og ótal adrir fegrudu sínar fyriitektir med fødurlands elsku nafni; en þad var þó eingin dygd. Þeir ad sønnu elskudu sig sjálfa; en þeir elskudu ei adra eins og sjálfa sig, uppskáru og þarfyrir slæma ávexti sinnar sjálfselsku, af því þeir lifdu ei eptir náttúrunnar løgmáli.

Margir kannské finnist þeir, sem ætla ad þad séu ei utan vissar persónur, sem hafi hentugleika og tækifæri til ad elska fødurlandid, en því

er ei svo varid. Þar er einginn sá, sem ei meigi og eigi ad elska føдurlandid, og þad géta allir og þad svo mjøg, ad vandasamt má verda ad dæma, hvør mest elskar. Ein ekta-persóna, sem vel lifir í sinni stétt, elskar føдurlandid. Sá húsfadir, sem vel uppelur sín børn og hjú, elskar hvad mest sitt føдurland, og bóndi sá, sem vel ræktar jørd sína, gjørir þad ei sídur. Eingin er sú stétt, sem ei géti elskad føдurlandid med því, ad gjøra skyldu síns embættis. Sá aumasti og audvirdilegasti gétur í þessu képpst vid þann ædsta og ypparlegasta. Og medan føдurlandsins elska finnst ei hjá hvørri stétt, er føдurlandsins velferd ei full grundvøllud. Og med því þettad er dygdin, þá er audsjed, hve mikid á henni rídur.

Nú er þad víst og ómótmælanlegt, ad sú dygd er sterkust, sem byrjar á Gudi. Dygd sú, sem uppsprettur af elskunni til Guds, er sú ypparlegasta, stødugasta og ávaxtarsamasta, því segir Páll Postuli: ad gudhrædslan sé til allra hluta nytsamleg, hafandi fyrirheit þessa lífs og hins eptirkomandi. Sá sem gengur einasta eptir náttúrunnar ljósi, kann opt og audveldlega ad villast af dygdarinnar vegi. Skilníngurinn kann ad formyrkvast, og tilhneigíngarnar kunna ad verda ofsterkar, svo ad madurinn sjer ei hvad honum er fyrir bestu, og elskar sig þá ei sjálfann réttilega.

En sá sem Gud elskar, hann stundar ad gjøra hans vilja, og leitar þar í sinnar ædstu farsældar, því hann lítur mest á þau eilífu og ókomnu launin; honum er ei hætt vid ad villast af dygdarinnar vegi, því hann hefur þann, sem honum vidheldur, Heilagann Anda, sem í honum býr, sem upplýsir hans skilníng og minnir hann á þad góda.

Nú eru, því verr! allt ofmargir, sem ei leidast af þessum Guds anda, sem ei líta á þau andlegu og eilífu launin, og eru mjøg tornæmir í því. þurfa þó dygdina ad ydka, skuli þeir ei verda bædi sér og ødrum til tjóns og skada, og þann veg voru flestir ásigkomnir, ad sýnast má, í Gamla Testamentinu. En hvada medal brúkadi Gud vid þessa? hann brúkadi fyrirheit um tímanlega farsæld. Því má ei brúka sømu adferd enn nú á þessum døgum vid þá, sem eru børn í skilníngimum? sem þurfa mjólk en ei megnann mat? því má ei fara med þá eins og børn, sem gángast fyrir føgrum lofordum? nóg er til ad lofa af líkamlegri farsæld, og nóg íllt til ad hóta. Eingin er sú dygd, ad ei hafi sín nattúrleg og eigin verdlaun, og eínginu sá løstur ad ei leidi sjálfkrafa íllt eptir sig.

Æra og vanæra, heidur og óvirdíng eru þau audveldustu verdlaun dygda og ódygda, og

því hafa nokkrir spekíngar sett þær í stað sjálfra dygðanna og lastanna í einni einvalds stjórnan. Og víst er það betra, að mennirnir ydki dygðirnar fyrir tímanleg og jafnvel fáfengileg verðlaun, heldurenn að þeir ydki þær ekki. Æru-girnd, metnaður og virdínga-girni kunna að hafa allgóðar verkanir, þó þetta sé fáfeingilegt í sjálfu sér. Mundi þá ei leyfilegt að brína þetta fyrir fólki? ei er hætt við, að þeir sem af elskunni til Guðs æfa dygðina, hætti þar fyrir að elska Guð. Guðs elska er indælli enn svo, að menn sleppi henni, og taki fánýtann hégóma í staðinn. Hinum mundi og miklu fljótara að nema þá edla dygðina, sem grundvallast á Guðs elsku, ef þeir með einhvørju móti læra að æfa hana, heldur enn ef þeir lærdu það ei.

Allt þetta sýnist, sá gáfaði og guðhræddi kénnimann sál. Síra Jón Magnússon hafa fyrir augum haft í þeim kvedlíngum sínum, sem hann kallar Húss Töblu; því þó hann þar mest brúki Guðs elsku og ótta fyrir tilknúandi orsakir, til að leiða menn til dygðarinnar, þá gleymir hann þó ei heilagra og góðra manna dæmum, og er það eins og hann þar með eggi til metnaðar, því sá sem breitir eptir ødrum, fyrir því hann vill annaðhvørt líkjast þeim sem mest, edur

ei vera ødrum síðri, sýnir þar í saklausann og lofsverðann metnað. Þessi sæli maður hefur ei haldið það heldur ósæmilegt því Guðs orði, sem hann talaði, eður sér óvirðíng, að géta þar smá-smuglegra hluta, sem nú munu þykja ofaudvirði-legir eður hneixlanlegir, fyrst þeir heyrast lítt eður ekki opinberlega kénndir. Náttúrlegar fylgjur lasta og dygða skírir hann einatt, og ladar menn með allt slag til að yðka dygðina.

Það sem mest er lofsverdt og mjøg addá-anlegt hjá þessum góða manni, er, að hann brínir mest fyrir mønnum þær svo køllu̇ðu borg-aralegu dygðir. Hann hefur sjeð, að fólk þurfti meira með undirvísunar um innbyrðis viðskipti og hvørs dags háttalag, heldur enn um trúar-innar høfuðgreinir, sem flestir eru allvel upp-fræddir í, þó þeir séu um hitt miður fróðir. Óskandi væri, að sem flestir vildu feta í þessa góða manns fótspor í því, að kénna almúgan-um, að færa sér þau fræði í nyt í daglegri um-geingni, sem bæði lærast utanbókar og prédikast í Søfnuðunum.

Og með því þetta er nú svo bægilega gjørt

í þessari Hússtoblu, sem fyrst er þrykkt í Kaupmannahöfn að forlagi sál. Sýsslumannsins Jóns Jónssonar yfir Vadlasýslu, þess manns, er ei var sídur nafnfrægur fyrir sína gudfrædi, forstand og stjórnsemi enn laga vitsku, en hún (Hússtablan) ordin fágæt hjá almúga, þá er hún nú á ný prentud í því nýa Prentverki í Hrappsey, og med mikilli athygli rétt af þeim prentvillum, sem voru í hinu fyrra upplagi.

Þessir kvedlíngar eru svo ypparlegir, ad sérhvør sá, sem þá ydkar og eptir þeim gengur, hann má ótvílad vænta sér gudhrædslunnar og dygdarinnar verdlauna, sem eru tímanleg og eilíf gædi, og hann sýnir þad í verkinu, ad hann sé Guds barn. Því sá sem ei lifir vel í hjónabandinu, stjórnar vel børnum og hjúum, stundar ærlegt ervidi, þrifnad og sparsemi, ræktar vel jørd sína, og stundar vel búskap sinn, sínum samøldrum og eptirkomurum en þó mest sjálfum sér til góda og svo framvegis, hann elskar ei sinn bródur, og hvørsu má hann þá Gud elska?

Gud hjálpi þeim øllum, sem ydka þessa kvedlínga, til ad færa þá sér í nyt, og uppveki

hjá þeim vilja og eptirlángan til að stunda sína tímanlega og eilífa velferð, svo að þeir, eptir að þeir hafa verið góðir konúngsins undirsátar og gagnlegir Íslendíngar, kunni að verða verðugir undirsátar þess alvalda konúngs í øðrum heimi og útvaldir dýrdlíngar á himnum.

Formáli sá, er hér stendur ad framan, er orðrétt prentadur eptir Hrappseyar útgáfunni; en almenníngi til fródleiks þótti nú hæfa, ad láta þessari þridju útgáfu fylgja ágrip af æfi høfundarins, og er það tekid úr Æfi Hóla-stiftis Presta.

„Jón Magnússon prests ad Audkúlu, Eiríksonar prests sama stadar Magnússonar, var fæddur árid eptir Krists burd, 1601; misti módur sína Steinvøru Pétursdóttur, þá hann var 4ra ára, en fødur sinn fyrr. Frá því hann misti módur sína var hann uppfæddur af Magnúsi presti Olafssyni í Laufási, sem átti fyrir konu fødur-systur hans Agnesi. Jón prestur vígdist fyrst til Mødruvalla Klausturs, og var þar 2 eda 3 ár; vard sídan Kapellan fóstra síns í Laufási, fékk svo braudid eptir hann 1636, og hélt því til 1675. Kona Jóns prests Magnússonar hét Gudrún Jónsdóttir prests og merkismanns Þórdarsonar frá Miklagardi og Ingibjargar Rafnsdóttur — áttu þau saman 4 børn: Jón, Katrínu, Elínu og Steinvøru konu Síra Jóns Þorgrímssonar á Þóroddstad. Katrín var amma Sýslumannanna Gudmundar og

Þorgríms Sigurðssonar, en Elín føður-amma Gísla Biskups Magnússonar, og er margt fólk frá Síra Jóni komið.

Hann var gáfumaður mikill og merkilegt Skáld, og lét eptir sig mikinn fjølda Sálma, sem hér og þar eru prentaðir í Flokka-bók, í Grallara og Vísna-bók svo kallaðri, líka andlegra Ljóðmæla og Rímna, en fátt veraldlegt.

# Nöfn

## þeirra kvedlinga
## sem þessi bæklíngur inniheldur.

# Hjóna Speigill

edur

Kvædi um frægd og sóma þeirrar heiløgu hjóna-bands stéttar, og hvørnin þeir úngu og ó-giftu skulu sig þar til búa, og þar inni gudrækilega lifa.

## Fyrsti partur Kvædisins,

um stiftan og upphaf hjónabandsins.

1. Sjá þú madur og sæta, sóma þinn og lífs-føgnud; hvørnin hag vorn bæta, hjúkrunarsamur vildi Gud, í øndverdu, þá ektaskap réd stifta, til frægdar vid þau fyrstu hjón, hans fyrirsjón, Adam Evu réd gifta.

2. A veraldar vídu ládi, var ei Adams líki neinn. Ad því Gud vor gádi, gott væri ei hann lifdi einn; látum oss (kvad ljúfust þrenníng) gjøra,

manninum kjæra medhjálp þá, er má honum hjá, til yndis una og vera.

3. Gud med hægri hendi, hinn medan festi sætann dúr, bjó til blómlegt kvendi, af beini, og tók hans sídu úr; fagra jómfrú færdi helgum sveini; Adam kénnsli á Evu bar, ad uppbygd var, hans af holdi og beini.

4. Forspár kvad, fyrst, kvinna, komin væri af holdi manns, kjærust karlmanns inna, kallast mætti hún til sanns; hér eptir ad hvørr mann skyldi og meiga, forláta sitt foreldra ból, en falda sól, ektabundnu eiga.

5. Tvø þau, teingd med dádum, teija skyldu holdid eitt, og njótast meiga í nádum, nákvæmd þeirri ei skal breitt; því, sjálfur Gud þad saman er búinn ad teingja, hefur K istur sjálfur sagt, ad mannleg makt, má þad ekki reingja.

6. Vildi víst, fyrir framan, vera um sagdann rádahag; signadur gaf þau saman, þann sjøtta heimsins skøpunar dag; til giptingar þeim gaf og sjálfur taldi, hald og eigu á heimsins grund, í heiman=mund; í Eden víst þeim valdi.

7. Hjóna vígslu helga, hafdi yfir þeim, og blessa réd, fólk Guds skyldi fjølga, fylla og prýda jardríkid. Eru þess vitni Engla Drottins skari. Í Paradís er sú skikkun skéd, vid skilníngs tréd, þad glæsta Guds altari.

8. Er því eigi af mønnum, uppáfundin þessi stétt; heldur med heidri sønnum, af hæstum Gudi fyrst innsett, og blessud star í blómlegum heilagleika; vill sú skikkun haldist hrein, í hvørri grein, enn, svo ei meigi skeika.

9. Gnd hinn hjarta hreini, (svo hjónabands hin illa synd, yrdi ad minna meini, og manneskjunnar sýsnin blind) ríkar skordur reist hefur í løgmáli, vid óhreinleik, og saurugum sid, ad setist grid, en heidurinn hnekki báli.

10. Vert í bodordum þremur, blessadur Gud med strángann rétt, vid þá klæki kémur, sem klandra þessa helgu stétt: gyrnd afskipar gløggt í tíunda bodi: í fjórda er óhlýdni hnekkt: en hórdóms sekt, í sjøtta er sagdur vodi.

11. Tugt og alla æru, elskar Gud, í helgun manns; med hjarta og holdi skæru, heidrast á því nafnid hans, því hann er einn sá hreinferdugasti andi: en hinum sem ekki er lán þad lént, ad lifa er hent, í heiløgu hjónabandi.

12. Líknarlaust mun dæma, lifandi Drottinn saurlífid, þykir síst þad sæma, signudum Gudi, ad mannkynid, í lausúng hafi lagnad, sem kvikindi, til óblessunar ad sældist sád, er síst hans rád, fylgir afsleppt yndi.

13. Lof fyrir lækníng slíka, lifandi Gudi æ sé téd, er þad lét sér líka, til linkindar vid mannlegt

géd, hjá sínum maka sérhvør mætti una; svo finnandi sæla bót, vid synda rót, og holds óhreinum bruna.

14. Framar, er þad til frægdar, frómlegann vid ekta-hag, til gledi og hugar hægdar, hjónum øllum nótt sem dag, af giftri mey ad Guds Son fædast vildi; hjúskaps-flekk svo hefur afmád, hans heiløg dád, bølvan burt svo skyldi.

15. Af því víst má vænta, velþókknan hann leggur á, alla eiginn-kvænta, er sig honum hlýdna tjá; ólst hann upp vid erfidi þeirrar stéttar; eril bús hefur allann reint, sem eg fæ greint, og þrautir þeigi léttar.

16. Víst því vorkénnt gétur, vøkur, mædu, lúa, og strit, þetta í þrjátíu vetur, þvíngadi hann (sem greinir rit) og eptir þad í embættid var setstur, med sinni módur og sveinum vard, í gódann gard, brúdkaups bodinn géstur.

17. Vantadi vínid sæta, veitslu lá vid ysdi spjøll; Jesús brest nam bæta, blessud séu hans verkin øll, af teiknagjørdum tjád er sú hin fyrsta, med þeirri, sínum þá og nú, hann taldi trú, enn þó neyd meigi nýsta.

18. Hirdir helgra dóma, hér med vildi ektalýd, auka æru og sóma, audsýnandi ad hvørri á tíd, í vidløgunum víst mun þeim sem búa, leggja jafnan líkn í skaut, med þúngri þraut, og grát i gledi snúa.

19. Lífs háskólann skjæra, skíuir nefna hjóna-band, þar marga list má læra, svo lýðir fái rétt forstand, á þeim mikla edla leyndardómi, um guð-dóms tignar eilífa ást, sem aldrei bráſt, og hærst-ur er hjúskaps sómi.

20. Þar Guð Fadir sig giftir, með gjædum öll-um himnaranns, en synda lítum sviptir, sálu hvörs eins kristins manns; í skírninni sitt skaparinn brúdkaup heldur; á eilífum sannleik upp er bygd, hans andleg trygd, ef vor ei brygd því veldur.

21. Kóngurinn kraptar hærsti, kvongadi einka soninn sinn, þá ljóminn guddóms glæsti, gaf sig saman vid manndóminn; hélt þad brúd-kaup hann í módur lífi: ein persóna nú eru þær, náttúrur tvær, blessuð hjón sem blífi.

22. Af meyar klæðum kvidi, kom og sem brúd-gumi hreinn, med náð og frægstum fridi, Frelsar-inn Jesús tvennur og einn, Guð og madur ad-giftast Kristni sinni: samkeypid er hans signad ord, en blessad bord, er brúd-kaups andlegt minni.

23. Hefur og heilagur andi, til heiturs gjörla vitum vær, ekta blídu bandi, brúdkaups fagrar vísur tvær, samsett undir Salómons nafni eina; adra kalla eg Davíds dikt: en drottinlegt, ordtak má her meina.

24. Guds réd munnur mæla, í mentunarfræd-um bádum tveim, ad heill og heimsins sæla, heppn-

ist jafnan øllum þeim, í ótta Guðs sem ektaskap-
inn stofna, og gjøra á hans vegi að gánga beint,
með hjartað hreint, í trú og dygð ei dofna.

26. Má það hug manns hressa, hold þó þjái
erfiðið, þrennur það vill blessa, svo þar af hafi
sitt uppheldið, og heppnast láta hús og náðugt
sæti, sem Guð mun sjálfur byggja upp best, og
bevara flest, með ununar eptirlæti.

27. Eins sem eikin græna, hins edla sæta vín-
viðar, ekta víðið væna, vera mun húss til eblíngar;
bónda prýði mun barnafjøldian þægur, sem við-
smjørs greinir vaxa í hríng, sá krans um kríng,
fitur sæll og frægur.

28. Guðs ástgjøfin dýra, er góð og mørg að
eiga børn, sá mun sigri stýra, sem það fær, og
traufta vørn, og leingi þar með lífdaga sinna nít-
ur; prýðrar kristni þægð og frið, og þriðja nið,
sinn hér sælann lítur.

29. Prýdt hafa líka og prísað, prúðir Englar
hjónaband, til meya virðum vísað, og verndað svo
ei skaðaði grand; Ísaak fór einn að þeirra ráðum,
annann ýngra Tobíam tel, hann tríldi vel, Rapha-
els dygð og dáðum.

30. Signaður sendibodi, svartann hepti morð-
engil, hættur hjónavodi, hindradist þar; svo geing-
ur til, nær Guð er beðinn grandi øllu að varna,

varðhalds andinn víkur ei frá, sem gløggt mun gá, bædi húss og barna.

31. Vída í verøld breidri, virdugleguslu tignarmenn, stitt þá høfdu í heidri, frá heims upphafi, sem nú enn; spámenn allir spakl stir undir sólu, helgir fedur med prýdi par, og Postular, børn vid brúdum ólu.

32. Sexfaldt gagn eg seigi, af signudum hjúskap leida kann, á hálum veraldar vegi, víf og ektateingdann mann; í fyrstu kémur af føgrum ástum yndi; annad midlan innbyrdis, og adslod viss, med samhuga ljúfu lyndi.

33. Þæg hugsvølun þridja, er þýdra hjóna milli fer; þad fjórda, ad bædi bidja, fyrir bádum jafut og sjálfum sér; fimta, gledi, er særst af barna gróda; þá er hid sjotta, þarfleg ment, og helgun hent, ydkun alls hins góda.

34. Er svo ekta-hagur, ein hin værsta lífs tegund, eins og akurinn fagur, sem af sér géfur hvørja stund, ávøxtun med edla tíngun nýrri, bainanna er þad heiløg hjørd, sem himni og jørd, Drottni þykir dýrri.

35. Hjúskap halda láta, heidurlegann, vill vor Gud, ad hér sé í hvørn einn máta, hjóna-sængin óflekkud, hægast er þá hreinlífisins ad gjæta; en má vel ské ef madur er einn, ad mey og sveinn, raun fái meiri ad mæta.

## Annar partur kvædisins,

um réttann viduibúning.

1. Því skal seggur og sæta, er sín forløgin ekki veit, ad grundvellinum gjæta, góds farandi snemma á leit, med ótta Drottins æsku-skeidid prýda, sinn Adam ad svæfa fyrst, og syndalyst, en Guds ad-gjørda bida.

2. Og eptir undanfarna, ydrunarfulla hjartans bæn, sem háttur er Herrans barna, med henni ad stofna upptøk væn, svo sem kénnir Saru og Tobíæ dæmi, og Isaaks líka, er upplét munn, vid lifanda brunn, eins trúi eg øllum sæmi.

3. Því allar edla giftir, ad ofan koma oss mønnunum, frá þeim fødur sem skiptir, fallega med oss gáfunum; en ein hin helsta er ekta-maki þæg-ur, sem ástvin einginn kjósa kann, fyrir mey edur mann, svo uni vid øll sín dægur.

4. Hér um hugsa ættu, hvørjir sem giftu stunda á, ad horfir víst til hættu, ef heutugleikanum ekki ná, stofnar þá undir stærstu lífsins plágu; en hlotn-an sú ef hagnar vel, þá heppni eg tel, mesta manns-ins þágu.

5. Þykir mér því áliggja, þeir láti ei á bæn-um frest, af Gudi sem girnast þiggja, gódvild slíka og lánid best; óbedinn hefur hann eingann lofad

ad stydja, lýdir meiga lakari skil, ei leggja til, enn gjafarann góds ad bidja.

6. Því blessud bænin góda, bísna miklu orka vann, med henni er best ad bjóda, til brúdkaups þeim sem vill og kann, ad hugga og næra hjónin; þad er Kristur, Fødursins dygdar geislinn glær, sá Guds Son kjær, sídastur sem og fyrstur.

7. Ædri er einginn hródur, enn eiga hann fyrir brúdkaups gést, med sinni signudu módur, sem hann ætíd adhyllist; þad er kristnin þýd, og góds árnandi, sem honum flytur hjónabøl, og hvørskyns kvøl, adstod umbidjandi.

8. Og ljúfa Læri sveina, Lausnarans, þad eru kénnimenn, sem telja oss trúna hreina, fyrir túngu og hendur þeirra enn, teingir þá Gud best sem til saman eiga, þessara líka þørf gjørist, á vidurvist, og þarfnast menn ei meiga.

9. Brúdhjóna efnum bádum, birti eg audnu vænlegast, ad fara ad foreldra rádum, forsjállega, med eingann hast, á eldri dæmin ýngisfólkid hleri; Isaak þókti eingin vamm, ad fara því framm, sem fadir hans honum kjøri.

10. Eins fór og hans bródur, Ismael, bar þó stífna lund, samt lét sína módur, sér útvelja ektasprund, ambátt var þó Agar sem hann fæddi; frómur Jakob fór þann veg, sem foreldraleg, rádlegging umrædi.

**11.** Samson hugfest hafdi, hreinlegt sprund til ekta fá, en fyrst til fylgis krafdi, foreldra sína ad mætti ná, þeirrar ást, sem þóknadist hans áliti; løgin skipa Guds sanngjørn, sín gifti børn, fed-ur, þad finnst í riti.

**12.** Med augunum skyldi enginn, ekta-brúdur velja sér, því vænleiks varir ei leingi, virdíng sú er skartar hér, á óráðvandri, eins og gull á svíni, Dalila á sér Samson sveik, í lymsku leik, þad flagd med føgru tríni.

**13.** Gjaugri gaupn edur hendi, gifta skal sig enginn med, en girnast gódríkt kvendi, gjørst hef-ur opt, þá átti hún féd, foroktun vard hinn fá-tæki ad heyra; þurrt í nádum betra er braud, med eingum aud, enn med aggi meira.

**14.** Er því best med eyra, ektavin ad kjósa þann, um hvørn þú fær ad heyra, ad hógvær dýrki Skaparann, því gudrækninni gódu er búid ad heita, annad allt þeim æ tilleggst og aldrei bregdst, sem Drottins dýrdar leita.

**15.** Kvennlig idni og æra, med ord-vareygd, og mjúkri lund, er meyanna skartid skjæra, og skárstann tel eg heimanmund, er ógiftir eiga mest tilslægjast, ad foreldrum, vel er, gløggt sé gjætt, og allri ætt, þar vid mann vildi mægast.

**16.** Minnstu madur og svanni, ad máttu ei birja þessa stétt, med lausúng, glensi, og gamni,

gjør sem Drottinn hefur tilsett, fýsn óhreina fyrir þig lát ei ráða, er Saru vard bændum sjø til meins, og Sikkem eins, hefnd því hrepptu bráda.

17. Hvad sem hefur fyrir stafni, heilaga Páls þad kénnir bréf, med dygd í dýru nafni, Drottins Jesú, allt upphef, og athuga senn hvør endíng þess muni blífa, móti løgum og sæmdar-síd, þar sjá þig vid, gjøra, og Gud þinn ýfa:

18. Upphaf gott mun enda, alla tíma gódann fá, í høfn mun hollri lenda, hvør sem illu sneidir hjá, og réttri trúar-reglu eptir breitir. Allra vorra stigum stír, þú Drottinn dír, sem allt gott villt og veitir.

## Þridji partur kvædisins

### Um Hjóna-skyldurnar.

1. Heyrid hjónin bædi, er hvílu byggid eina senn, hvørnig heiløg frædi, húsfreyur, og gipta menn, menta hér, og minna á rétta sídi, er hjúskaps prýda heilagt band, og hefta grand, med sælu og sønnum fridi.

2. J svoddan sjónargleri, til sýnis stár hér herrans bod, og hvørt gagn þad gjøri, ad gégna því, og lukku stod, af dýrra hjóna dæmum, sem eg greini, en illra, hvílík vondska víst, og hugraun hlýtst, af misklídinnar meini.

3. Hatur er hjónum bannad, hvort fyrir sig næst Gudi á, hýrlega hyllast annad, og hjartans alúd þar til ljá; líkt sem bein er límt vid hold á manni, og hendur tvær þær hjálpast ad, í hvørjum stad, eins skal seggur og svanni.

4. Vid eg þann sig hér sjái, sjónar = spegli þessum í, svo ad sérhvørt gái, sinnar skyldu, og fyrst ad því, ad fyrir eitt ok eru spennt þau bædi, hljóta því ad halda eitt, svo fái fleitt, laungu lífs armædi.

5. Sýrakk sæll því hrósar, ad sínum anda líki þrennt: sem ekta er dreings og drósar, dygdasemi og ástúd hennt, ásamt brædra, og allra granna hylli, því Gudi sé bædi og þýdri þjód, þad þókknan gód, ad kjært sé manna á milli.

6. En ekta ástin ljúfa, er æskilegasta sambúd þó, sem einfold eins og dúfa, æ skal koma af hreinum mó, gallalaus, og grædarans svipud ástum, sem meir elskadi mig og þig, enn sjálfann sig, og borgadi bótum skárstum.

7. Ástin hjartans hýra, hugul er og vilja gód, illsku ei kann stýra, óvandlát og þolinmód, ógrunsøm veit aldrei sig ad stæra, ei fagnandi illri skémd, og ósidsemd, fjærfeld fors ad læra.

8. Elskan ædsta sú er, sem alla hluti ber án móds, einninn øllu trúir, æ og jafnan vonar góds, hylur líka hvørskyns vamm og lesti, sannleikan=

um þó samfagnar, og síst dodnar, allt þó annad bresti.

9. Salómón segir af henni, ad svo sem daudinn hún sé sterk, eins og eldur brenni, allfasttæk sem vítis kverk, og ad hún slokni ekki í vatni straungu, og allt sé hjá henni einkis neytt, þó væri veitt, verdi kaupist eingu.

10. Meinti sá er sagdi, sem vid helju stendst ei neitt, er berserk bædi og flagdi, banad hefur, og kjempur deydt, og helvítid ei hremdu bíti sleppir; svo kann ástin sønn og frek, ad sigra allt þrek, um upptekt einnin keppir.

11. Eídurinn øllu tærir, einginn frá honum mein allt bar, eins kann ást sú kjær er; uppbrenna til sóunar, hvørt eitt þad í hjúskap ad kann ama, vinnur bædi á stein og stál, þó stórlynd sál, vid bljúga búi til sama.

12. Holds af ljótum losta, logi kviknar ekki sá, vegna kyns og kosta, kona og madur elskast má; því gódur er nautur ad gagnlegu ekta pari, æruskeinkur helsti er hans, sem hag sier manns, og einginn ágjætari.

13. Kann ad kaupast eigi, kjærleikur fyrir aleigu manns, án hvørs allt þó segi, ónitt geingi hjónabands; glædist hann af guddóms anda áblæstri, og hans gódgirnd alls háttud, sem eslir Gud, miskunar midlun stærstri.

14. Þó sútar straumurinn strángi, steypist ofan í þennann eld, og allskyns ánaud gángi, yfir ástsöm hjón, svo verdi hreld, aldrei þeirra elsku-glædur deya, þó sundrist þeirra samvist kát, fyrir sárt andlát, og eitt verdi annad þreya.

15. Abraham unni Saru, alltíd fram í daudans púnkt, eins med yndi kláru, í ellinni, sem þá líf var úngt, Isaak fékk umbót sinna harma, med ljúfri gifting, lesum vér, hann létti af sér, um móður-missir ad barma.

16. Lát svo líf þitt gledja, ad lifa med þinni ækta-frú, og þitt sinni sedja, sæta hennar ást og trú, undir sólu er hún þitt hlutskipti; gáníng hennar góds samlags, til daudadags, skal ekka hinn eigin-gifti.

17. Eingin ill líkindi, né andlits fegurd Rakelar, heldur ekta yndi, sem innplantad af Drottni var, hins helga Jakobs hug til meyar knúdi, svo hann tilvann, og lá þad létt, í lágri stétt, ad þjást sem þræll fyrir brúdi.

18. Ad eins med ordi og túngu, elskast meiga ei kristnir menn, þad hugsi hjónin úngu, ad heilagt verk og sannleikinn, vitni bera um vilnun ástseminnar, hvør ei skal vera falin í frægd, eda frídleiks þægd, heldur í hjarta innar.

19. Um Elkana eg inni, ad Hönnu meir med luktann kvid, unni, heldur enn hinni, er hjúskaps

børn þó átti við; eins skulu hjón, að óskum þó ei falli, láta græfa elsku=art, yfir ólán margt, þó auðlegð út af halli.

20. Horfist hé'st til náða, að hugsi þau og vilji eitt, og verði í raun samráða, rétt svo ei beri á millum neitt; því fráskylcu sem þýðum Guði er á móti, og ærunni, það frá eg þau frí, þó fylgi ei því, og boðorð Guðs ei brjóti.

21. Féll því Adam forðum, að frekar enn Guði trúði hann, sínnar Evu orðum, ekki er vorkun það fyrir mann, að skeita konunni, en Skapara sínum gleima, Krists verðugur sá er síst, og sú er snýst, svo á sín ráð heima.

22. Því varð Salómon sæla, að sínum konum unni ofdátt, svo hann þær sig lét tæla, svívirðilegann að fremja hátt; maður og kona meiga ei rángt samhylla, í øllu skal semja ødru þeim, enn klækja keim, og upptekt þess hins illa.

23. Menn og sætur sjáið, hvað síðan er og hennar rif, hjartanu harðla náið, hugfestið því Mósis skrif, ykkar á milli ástar hitinn blífi; hér afbregði hvørugt hjón, í Herrans sjón, með styggð og køldu kýfi.

24. Af Nathans dikt má dæma, er Davíð Kóngi tjáði hann, um velsemd viðurkvæma, sem við eiga að miðlast kona og mann, um eptirdæmi ójafn

fjáðra tveggja. Einn sem hundrað átti fjár, var álna sár, lóg tímdi ei að leggja.

25. Félaus annar átti, einstakann sér lítinn sauð, af sögðum sjá ei mátti, sá með honum át hans brauð, þenna sama þegninn kjærann hafði, drakk af keri sjálfs með sann, og sofandi hann, með örmum að sér vafði.

26. Sjáandinn svo réð meina, í sögðum dikt um þann sem hér, sauðinn átti hinn eina, Urías var það Hethiter, brúðir hans kjær var Bersabe hin væna, dárlega hvörri Davíð réð, þann mann og með, lífinu líka ræna.

27. Eins þegar lambið ljúfa, og líkt sem Urías, ættu hjón, eitt við annað búa, en ekki svo sem dreki og ljón, síns húss ekta-sauð með harðúð granda, hjá þeim sem hittist sambúð sú, eru Satans hjú, drifin af illum anda.

28. En sjá hvað hitt vel sómir, (Sálma skáldið þanninn kvað) þá ekta-félagar frómir, í forlíkun vel hjálpast að, fyrir Drottni er það, sem dögg sú eptir gróða, að bæði hans líf og blessun klár, um eilíf ár, yfir sambúð sældast góða.

29. Sem balsam best ylmandi, er bræðra og hjóna samlyndið, í svoddan saudabandi, sitt vill Kristur tjóðra féð, að svo fylgist í sínu helgu nafni, tveir og tveir, og svo með sann, er sjálfur hann, þriðji í þeirra safni.

30. Hvørt á ad heidra annad, høfud er madur kvinnunnar, yfirvald brúdi er bannad, en bodord Páls svo tilskyldar: hvør sér annann hafi í virding ædra; sitt skal madnrinn sæma víf, sem sjálfs síns líf, þau eru býtin brædra.

31. Fátt kann finnast verra, ef forakt millum hjóna er, hvør ydar sem er herrà, hann sé minnstur, Kristur tér, undirgéfinn æ sé konunnar vilji, mavnsíns valdi, en midli þó, med rádi og ró, á svo aldrei skilji.

32. Abraham Saru sætti, svo sem af Drottni til var sett, vid hana valla þrætti, er vissi hún hafdi ad mæla rétt; herra sinn húu hann þó vidurkénndi, og ofurrádum eingum bar, en audsveip var, svo skulu kall og kvendi.

33. Wasthi vard útrekin, vondsku full og þverúdar, Ester inn þar tekin, og upphafin til drottníngar, af Asveró, sem ektamønnum skrádi, Guds af laga réttri rót, þá réttarbót, ad hússtjórn rekkar rádi.

34. Þessi er heidur hjóna, hvørutveggjum jafnt í vil, hún er hans kóróna, høfdinu búin sóma til; er kórónan ædsta høfudprýdi, en þar þad er dosid og daudt, er djásnid snaudt, eins og ónítt smídi.

35. Vid sól á festíng frídri, er fagurt skín og vermir heim, líkt er línspaung blídri, til lærdóms er þad hjónum tveim; himininn uppi heldur sólar-

mitti, ef geingi hún ekki línu og leið, og skipað skeið, þá dapraðist hún og ditti.

36. Við stöðugann stólpa af gulli, þar stjórnin húss er uppábyggð, svanninn sæmdafulli, samlíkist því staðföst dygð, er hennar prýði, í hvörri hún á að glóa, góðri konu gédstillíng, er gullvægt þíng, og klappar lof í lófa.

37. Fegursta sé í heimi, frá eg gullið hreint og skírt, æðst af öllum seimi; er það þó í vyrðíng rírt, hjá hugvitugu og höllu ekta-vísi, eingann sjóð hér eignast mann, svo ágjætann, í völltu ver-aldar lísi.

38. Frómrar sætu sómi, er svo sem ljós það fagurt skín, hátt í helgidómi, hús sitt prýðir silki-lín, og sá sem ödlast svoddan kvinnu eina, góðvild stóra af Guði fær, og gjæfu nær, líf mun ró-samt reyna.

39. Góðann hlut eg greini, göfugt fljóð með dyggva lund, er, já, eðalsteini, ypparlegra svoddan sprund, með heiðran búi því hvör við konu sína, og fóttroði ei svo fémætt þíng, með fyrirlitníng, því það er síður svína.

40. Þessu er þanninn varið, þeink minn vin og gát á haf, manni er mjög vandfarið, með mætann grip, er Drottinn gaf, að honum í sinni heipt ei frá þér svipti; ef með hann þú ekki fer, sem best þér ber, máské um margt þú skiptir.

41. Einginn veit hvad átti, ordtak þad er dag-legt mál, fyrr enn misti og mátti, mannskada finn af hryggri sál, breya og kloga þúngum med sokn-udi; finn vid maka sérhvør þá, á medan má, uni gladur í Gudi.

42. Sem sól med sinni prýdi, sér ei skín, né ljósíd glært, og gullfu finn frídi, føgur perla og djásnid skjært, allt er þetta ødru gjørt til blóma; hvørskyns gáfu hríngs skal bil, þar halda til, ad leita síns manns sóma.

43. Eiga hjón ad annast, annars naudsyn hvørt um sig, svoddan skylda sannast, og sýnist vera náttúrleg, því eitt hold eru innbyrdis þau bædi; æ því midlist øllu vid, um lán og lid, sem fyrr er kénnt í kvædi.

44. Teist því tveimur þægra, til samans svo hjálpast ad, bádum betra og hægra, enn búi einn í hvørjum stad, hæginda svo hefur oss Drottinn leitad, ad høfudid skyldi hennar hann, en hún med sann, mannsins medhjálp heita.

45. Skulu í høfdi skína, skjærleg augu for-sjónar; hér med heyrnin fína, er hvørskyns þarfa athugar; og munnur sá er um margann ósíd vandi; og heilinn þar ed hugvit býr, sem skørp og skír, ylman adgreinandi.

46. Búks er høfudid herra, því hvirfill stár á manni efst, hjálp má þess ei þverra, er því af

finni hendi gefst; hvén og fætur halda þó uppi bádum; þá hvør einn ødrum limuinn ljær, og lid sitt fær, náttúran er í nádum.

47. Høfudid hærst þad lénar, hentuga stjórnan limunum, høndin þrisin þénar, þarflega øllum manninum, en iljar og fætur allann þúngann bera; madur og kvinna er høfud og hønd, en hjú rádvønd, verk sín viljug gjøra.

48. Med munni og hendi hlýtur, hvør og einn í þessari stétt, vera ad nokkru nýtur, til næríngar sem til er sett, synd er manni sveitalaust sig metta, einkum þeim sem ødrum skal, í eymdadal, vera til lits og létta.

49. Adam akra fægdi, Abel rakti sauda slód, nýtur Nói plægdi, ad nýu eptir syndaflód, Ísak sjálfur í óáriun sádi, heila mæla himna mjøls, nam Ísraels, safna lýdur á ládi.

50. Kristí fóstrinn frídi, forsorgadi María og sig, trúr med timbur smídi; já, tign í holdi gudsdómleg, ásýnd þræls bar allt ad dýrdar skeidi; Pétur og adrir postular, til plógs sig bar, fús á fiski-veidi.

51. Sá er sér kvøntudum, synjar styrks, í eiginn stad, verri er vantrúudum, von hefur helgri afneitad, húsbóndinn þad hyggi ad sín sé renta, ad afla til med æru og trú, og annast bú, brúdi og børn ad menta.

52. Og þegar sætu sjúka, sjer uppá, skal leita ad bót, af allri alúd hjúkra, med andvarpandi hjartans rót, til læknarans, sem líkn á sorgar degi, heitid sínum hefur lýd, ef hjálp gèfst blíd, gøfga, en gleyma eigi.

53. Eins skal ekta vífi, umhugad í sinni stètt, mæddu mannsins lífi, medhjálp vera, ad falli lètt, bádum þeim, sem bágt er ødru ad vinna, innan bæar umsjón slíng, og útdeilíng, hennar lítt má linna.

54. Því gègn og greidvirk bædi, gjætin líkist silkilind, í Salómons føgru frædi, vid fótvakra og þæga hind; dægilegt er þad dír og mørgum fremur, med sínum kálfum hún er hrein, og sjaldun sein, elskar únga og temur.

55. Eins skal seima sága, (sóma eg þad og ætu tel) med hirtni húsid fága, hjú og børnin aga vel, því tómlát kona, og tøm á órægsluna, sem rotnan leggst og mesta mein, í mannsins bein, svo vill miklu muna.

56. Edla eptirdæmi, af Abígael læri fljód, þad trúi eg þessa ræmi, hún þóktist ei til neins ofgód, med allri sæmd vid illmennid hún breitti, fætur baudst á þénurum þvo, og þad fór svo, hún hærri nafnbót neitti.

57. Hèr skulu hjón adgjæta, hvørt sem betur kann, þad á, um fyrir ødru bæta, aldrei þeim

þad leidast má, svo birjidar trygdir blífanlegri stædi, er sín á milli bundu blíd, á brullaups tíd, mjúku med jákvædi.

58. Eitt má ei annad tæla, yfir þau hvørt sem drífur hér, vol edur blessud sæla, beggja er þad sem annars er, hvørt má odru hjónanna einkis varna; því svarandi: þetta er mitt, en þú átt hitt; glød segi heldur: gjarna.

59. Vid bølinu meiga búast, bædi hjón í þessari stett, og mjøg vid mørgu snúast, mun þá sérhvad falla létt, ef hyr samtok þau hafa í þolinmædi, ad bera svo sem himneskt hnoss, þann herrans kross, af sorg þó svídi og blædi.

60. Fyrst er ad læra ad lída, þad leggur sjálfur Drottinn á, hans svo hjálpar bída, heilog reinsla kallast má, likt sem ad eru líkamans kaun og sálar, audnuleysi, og øreygd snaud, þegar brestur braud, er sumra sinni brjálar.

61. Obirjuskap og annad, ángurlegt hafa helgir reynt, lidid og leingi kannad, lidsemd komid mørgum seint, áslmenn sína ordid líka ad trega, aptur svo þad góda er gaf, tók Gud þeim af, med mannraun margvíslega.

62. Menn hafa margt ad lída, mest óhlýdni af børnunum; vid hatri hér má kvída, hrekkjum, skuldi, og ágigum, rádríki, og raungu mørgu á-

mæli, óþakklæti, og íllt fyrir gott, og einnin spott, af hvørjum húsgángs þræli.

63. Einkum ósamlyndi, ef þeim sjálfum vill það til, að eitt kann ekkért yndi, af ødru að hafa, er voða spí; því kølski vill þá komast þar uppá milli, vilji hvørugt vægja þá, og vondu afslá, sigur fær Satan illi.

64. En þau ekki meiga, hið illa láta vinna sig, hjónin heldur eiga, á hinu vonda finna svig, umbera hvørt annars brest, og segja: með góðu til, ef géfst ei bót, skal Guð af rót, betinn til betra að hneigja.

65. Hvørskyns hamíngju tagji, af hermdum raunum margt eður fátt, í meira eður minna lagji, að mønnum kémur úr hvørri átt, er eingin bót við ønnur betri enn líða, og Kristó sitt að kjæra mein, ef kémur sein, herrans hjálp, að bíða.

66. Þá vesøl varir ei leingur, vina og frænda aðstoð hál, Guðs fullthug inngeingur, gleðja má það hryggva sál: enn þó hann sýni eður og stundum tregður, þá er bót og náð hans nærst, að neyð er stærst, orð sín aldrei bregður.

67. Gott er Guði að treysta, þó gjøri hann ekkju, konu eður mann, og sinn hug að hreysta, við hold þó skilji lífs auðnan, vor er hann Guð, en vér hans sérhvør sképna, að falla í líknar

hendur hans, er hagur manns, tel eg það hlut-deild heppna.

68. Öllum hjóna efnum, óska eg góðs fyrir Kristí blóð, sem og samangéfnum, sína Drottinn anníst þjóð, blessan gési og bót á raunum sínum! fyrir ektastandsins æruhag, sé ár og dag, dýrðin Drottni mínum!

69. Drjúgar bragar bøgur, brotnar þrotni, er ordti Jón; þagnar Magnús Møgur, minn þegar linnir erinda són; Hjóna Spegil heita læt eg kvædi, hvør það færir á hægra veg, þeim óska eg, hann gudleg ødlist gjædi.

# Ekkju Kó.

## Eitt kvædi sorgfullum ekkjum til hugfróa.

Med lag sem Hjónasinna.

1. Ekkjan yndis hrjúfa, er ástmann lidinn þreyr, eins og døpur dúfa, Drottins mál þú heyr, sem þér skal kénna kvædid mitt; hvørsu sætri hugsvølun, hann hvíslar í eyra þitt.

2. Þig hefur gjørt ad græta, Gud, þegar tók þinn mann, blessadur vill það bæta, bølid, sjálfur hann, sem plagar ad snúa vatni í vín; eptir skúr og ofanfall, aptur sólin skín.

3. Munu þad margir sanna, mannskadinn er sár, helst þegar kvendin kanna, hann kúgar af augum tár, ekkjudómur er ángurs sess, sú þad reynir, sannlega margt, sýngur hrygdar vers.

4. Meina eg margt hid sama, megi beinast ad, sem yndi hennar vill ama; eitt er sannprófad, allmargir hafa ádur og nú, opt sér gjørt vid ekkjur dælt, eg veit dæmin þrjú.

5. Ekkja ein á døgum, Elísei var, af sínum sorgar høgum, sig aumlega bar, þá heimtarar skulda hreifdu því, ad hennar vildu hneppa børn, hardann þrældóm í.

6. Hræsnarar hvørjir ed sátu, á helgum Mósis stól, med flærdum í sig átu, ekkna høfudból, sá ed vissi sagdi þad; þessara makar þeir eru enn, sem þvílíkt hafast ad.

7. Víkur á vor Lausnari, ad verid hafi í borg, óheill yfirdómari, og ekkja full af sorg, undirþrykkt af ofríki, allseint fékk hún uppreisn máls, opt kann slíkt ad ské.

8. Ekkju raunir allar, ótal reiknast mér; hinum limunum hallar, høfudid burt þá fer, sem kallast madurinn kvinnunnar, med sínum børnum, høfudlaus her, meiga heita ekkjurnar.

9. En bitrann drykk skal bæta, svo beiskjuna taki úr, ef meira má þad sæta, minkar allann

sítr, sorgar kaleik sykrar Gud, eymdum holts hann umvendt fær, í andlegann fögnud.

10. Jurtir gódar gjöra, gledilegt heilsu vín; Drottinn distillerar, dapra hrygd og pín, í gégnum helgar hugganir; af þeim sætna einnin víst, ekkna hugraunir.

11. Fagnadar jurtina fyrsta, finnri enn sætt ans, af vænum vidi má hrista, sem ver í Paradís, líkblómgadrar itníngar; hjartans drýpur hunángid best, af hvörjum kvistu þar.

12 Allt hvad skrifarinn skrádi, skíra Biblíu í, fagnadar frægi sádi, fíngur Drottins því, svo hér af yrdi hjörtun fród, med huggun efld í helgri trú, hraust og þolinmód.

13. Guds ástkvinnur gódar, gist hafa forlög hörd, urdu ángurs módar, ekkjur hér á jörd, Naemí er nafnkunnug, Rut og Júdit sérhvör sú, var svinn og hreinferdug.

14. Assá ektamanni, ein í Naims stad, syni í sama ranni, sínum eptir þad, sjö sinnum var Sara gift, Naguéls dórtir ekkjan úng, öllum bændum svipt.

15. María mey vard ekkja, módir Drottins hrein, hlaut þá sorg ad sekkja, saman vid örnur mein; hún ein lagdi mest í mold, þá jómfrúr Sonurinn Jesús dó, og jardsett var hans hold.

16. Feirum frómum kvinnum, fell til þessi

neyd; líka í manna minnum, mørg þann skada beid. Eia á stigum ekki ert þú, gédhógvær þig géf til frids, og grát ei leingur nú.

17. Vel er vidunandi, ad vera í þennann hóp, hér med heilagur Andi, heidra vill þitt óp, Guds vilji ekki grandar oss, þad er meiri bati enn bøl, ad bera Drottins kross.

18. Hunur edla plóma, yrd í mótgángs skál, gljúpum leggst á góma, og gledur hryggva sál; Gud ad smakka géfur hér, hvørsu í ordi signudu sín, ad sætur og ljúfur er.

19. Gud í hærstum hædum, himna Kónguriinn skjær, fullur af fagnadar gjædum, fadir nefnist kjær, þeirra er eingann eiga hér; upporþinn er ekki sá, sem ad hans rádum fer.

20. Øllum einstædíngum, er þad stór huggun, vill hann vesælíngum, veita forsorgun; helgur David hermir frá: fadirinn gleymdi, og módirin mér, en minn Gud stód mér hjá.

21. Ekkjur einnin meiga, yfir því fagna hér, hjá honum adstod eiga, ætíd vísa sér, því dómari þeirra er hann, ríkur bædi ad ráda og makt, réttlætinu ann.

22. Ad ángra og ei vid rétta, ekkju og fødurlausann, og fé edur klædum fletta, fyrirbýdur hann, í løgmáls-bók þad lesa má, sálmum líka og Salómons dikt, og sjáandanna skrá.

23. Hér af helst má skilja, ad hefur hann þeirra svar; hann er ei hægt ad dylja, hefnir alls óréttar; Gydínga drap því heidinn her, ad ásældust þeir ekkjurnar, því álykt Gud svo tér:

24. Hvør sig venur ad hvefsa, harmfullrar ekkju nid, reidi mín skal þeim refsa, og ræna hann lífsins frid, svo brúdur hans missi bónda sinn, og þeirra børn verdi þurfamenn, þad er dómur minn.

25. Sá nú ekki sætir, svoddan forbodum, ángr^a ada gjarna grætir, med grimd og áløgum, banvæna mun bølvan fá: almúgi skal vid úrskurd þann, amen segja, og já.

26. Illt vid ekkjur ad fremja, eda ángra í nokkri grein, og Gud sér þar med gremja, ad gjøra þeim slygd og mein, fordi øllum fadirinn klár, einkum frómri yfirvalds stétt! því umtal Drottins stár.

27. Hér næst høfum í agti, háleit Drottins bod: vill hann mann sig vakti, ad veita ekkjum stod, og þeirra gledja særda sál, einnin láta þær allt ské rétt, óvafid er mál.

28. Hvør sem hátid góda, heldur og gledidag, ekkjum inn skal bjóda, ad ødlist sældar hag; svo hennar børn þar hafi af not, þekka skipar dáda dýr, Drottinn Zebaoth.

29. Kristnr hid sama kénndi, er kom í Raimborg, med túngu, hjarta og hendi, hefti ekkju sorg;

og Jóhannes kjærstur Jesú sveinn, munadarlausa móður Guds, medtók ekki seinn.

30. Játníng Jobs af munni, er jafnan minnileg: ad hann af hjartans grúnni, hefdi aumkad sig, frá æsku sinni í allann stad, yfir hreldu ekkju hreidri því, sem hér átti eingann að.

31. Ekkju ráð svo rækja, og reynast þeim í neyð, med huggun heim þær sækja, ad heldur fái þreyð, og fødurleysíngjum leggja lid, Guds þjónusta er góð og skjær, gédjast himna smið.

32. Hann á himni og jørdu, hefur þeim umbun téð, ekkjum gagn sem gjørdu, gott hefur alla skéð; Elías vard uppnuminn; Job fékk tvøslíkt aptur allt, eptir mótgáng sinn.

33. Þridja sætleiks salla, er síast bølid í gégn, sturlan stødvar alla, stytti upp tára regn, fyrirheit kalla eg føgur og hrein, Guds af munni geingin út, gledja sál og bein.

34. Ef med sínum úngum, upphrópar til mín, ekkja af þela þúngum, þreitt í hørmum sín, heyra skal eg þann harma són, og hvervetna á hjálpar tíd, hennar veita bón.

35. Þegar svella sárin, (Síraks hljódar grein), opt falla ekkjum tárin, ofan á kinnar bein; en þau klaga í himininn hátt, illvígs manns yfir sekt og synd, sem þær leikur grátt.

36. Er Gud eingum fjærri, er tilbidja hann,

situr hvörjum hærri, en horfir á naudstaddann, harmþrúngid sem hjartad ber; heilags Anda huggun sú, harla gledileg er.

37. Sann ad sínum ordum, sjálfur Gud hefur sært, opt, en eittsinn fordum, ekkjur á litlu nært: í Sarepta ein bjarglaus bjó, en Gud fyrir henni ól svo önn, hún ekki í húngri dó.

38. Til Maríu módur sinnar, mjúkum augum leit, þá sverdid sorgarinnar, sárt á hana beit, Frelsarinn, ádur enn lét sitt líf, bífalandi besta vin; bjargþrota var víf.

39. Saru sorgarlegri, seinna ad óskum gékk; Júdit sætum sigri, og sæmdum hrósa fékk, vid giftíng fagra gladdist Rut; allar þessar af hans nád, ödludust gódann hlut.

40. Hugbót hér hefi eg þrenna, hermt í mínum brag, fannan frægstu kvenna, er fríoka ekkna hag: Guds lidsinni, og fulltýng fridt, og heitord þad ad heyra bæn, hvönær sem geingur lítt.

41. Sjá hér nærst þinn sóma, sætan harmatvíst, haf nú hegdan fróma, heims forakta lyst, sem í kláru ordi kénnir Gud, og helgra ekkna dæmin dýr, af Drottni afmálud.

42. Huggunar hnossin gódu, hermd í kvædi fyrst, heyra ei hvörri tródu, sem hefur mann sinn misst, því vil eg sýna sætum hér, í rádhollustu reglum fimm, hvad rétti ekkju ber.

43. Hin fyrsta ekkju æra, yndi og sálar gagn, er, orð Guðs ydka og læra, elur það trúar magn, áttræð gjørði Anna það, útslitandi ekkju tíð, í heilögum stað.

44. Kom þú í kirkju og hlusta, á kjær vinättu mál, þíns andlegs unnusta, ávarpar svo sál: óttast ekki, ertu mín; með þér er eg í þinni neyð, þar til að hún dvín.

45. Ut hefi eg þig valið, öpt þó hrjóti tár; all-gløggt einnin talið, øll þín høfuðhár; óvin fær þig ei hrifsað, úr høndum mér, því heitið þitt, hefi eg á þær teiknað.

46. Móðirin hér í heimi, af hölds afkvæmi sjer, en eg þér aldrei gleimi, ert þú føstnuð mér, í eilífri ást og trú; áhyggju þinni efalaust, allri til mín snú.

47. Onnur ekkju mæti, eru að trúa best, á þess orða ágæti, er allann bætir brest, sem Abra-ham gjørði, og svannin sá, er neiddist bana son-anna sjø, sinna að horfa uppá.

48. Af svoddan sálarprýði, sjálfs Guðs augum lítst, krýnir hún kristna líði, kvinnurnar hafa ei síst, hólpnar gjørst fyrir hennar krapt, og Kristí anda, sem kanverskt víf, þá kvalarinn sagði tapt.

49. Brúðurin blóðfallssjúka, og blessuð María frú, heilsu og huggun mjúka, hlutu af sinni trú.

Sálar auga hún segjast má; sæll er hann það setur þrátt, sjálfann Kristum á.

50. Hendur útbreiddi báðar, brúðgumi þinn á kross; sannleiks nægð og náðar, nú blasir enn við oss, í orði og teiknum helgum hans; með trúar faðmi taktu á mót, trygð þíns ektamanns.

51. Þá er í þriðja lagi, þeirra prýði góð, að sér ærlega hagi, í ekkjudómi fljóð, verkin hrein svo votti trú; skírlífið er skrautleg dygð, skartar vel á frú.

52. Eindrægni að unna, er kvennsómi hreinn, og kjærleiks verk að kunna, kostur fegursti einn, géstrisnin mun góð laun fá; Guðs spámenn í gamallri tíð, gistu ekkjum hjá.

53. Orð til offurs lagði, ekkju fátækrar, Krist-ur sjálfur og sagði: sú til kyrkjunnar, meira gaf enn hinna hvør; útlát smá opt virðast vel, ef viljinn manns er ør.

54. Ruth var rómsæl kvinna, og rík að hreinni dygð; Júdits lítt má linna, lof um heimsins bygð: fagrann spegil frá eg þær. Það er fyrir Guði farsæl frú, sem í fótspor þeirra nær.

55. Fjórða íþrótt og iðja, einsamallrar frúr, er Guð með blíðu að biðja, bjargvættur er hann trúr, og þá er svo sem hvílist hjón, ef optlega kemur til eyrna hans, þín auðmjúk hjartans bón.

56. Davíd ekkjum eldri, orð leggur í munn, að svo með sálu hrelldri, sæki heim náðar brunn: yfirgef ekki í elli mig, voldugasti verndar múr, eg vona uppá þig.

57. Ungar í ekkjudómi, ydki Sirachs bón: lífs míns faðirinn frómi, forða minni sjón, við óþérlegri allri lyst, svo órykti og eingin brýxl, að mér tilleggist.

58. Opt og ydugleg, ekkjan koma skal, með hrygð og hugarins trega, á himna Guðs eintal, og tjá honum sitt tjón og brest; óbrigdul er aðstoð hans, enn þó dragi á frest.

59. Seinast eg það segi, er sannar ekkju prís: þolinmóð að þreji; þó í voninni vís, að muni fyllast øll við sig, føðursins hærsta fyrirheit, føgur og trúanlig.

60. Vonin verður eigi, vinanna Guðs, að smán, sorg þó mæta megi, og minki auðnu lán, í þessari øld, sem þrátt hefur skéð; hvør mun þora, þeim á mót, sem þrennur og einn er með.

61. Lát mi þér ei þóttast, þó Guðs vild sé skéð, hirðtu ei hørmúng óttast, huggarinn er þér með, nægir oss øllum náðin hans; hel og neyð ei hremmir þig, úr hendi Lausnarans.

62. Þó lífinu sækan svíptist, síst skal vonin rýrð; sálin Guði giptist, í glæstri skoðunar dýrð;

ekkamann þar sælann sjer. Befel Drottni hús og hjú, og hvað sem eptir er.

63. Fagrar fimm íþróttir, fíú þér tem og lær, dýrri enn gullegar gnóttir, í Guðs augliti eru þær, með skarti þessu skrýði þig, þíns unnusta heiløg hønd, holl og ástúðleg.

64. Oska eg ærugjæddar, ekkjur styrki Guð! huggi harmi mæddar, og heilagann føgnuð, sendi þeim í sinni og brjóst! svo hugsi mest um Herrans náð, hrindi stygð og þjóst.

65. Gøfugum mønnum gefi, Guð til sína náð, að sorgir ekkna sesi, og sjái þeim veg og ráð! og umbuni sjálfur æru hót; en forláti hinum sína synd, sem þeim blása á mót!

66. Ekkjunum ógudlegu, sem (eins og Jessabel) gánga gløtunar vegu, gjøri svo Drottinn vel, líkfins gøtu leiði þær á, svo upplýstar af anda hans, að sér læri að gá.

67. Guð gefi, þó eg þagni, að þær sem hlýða brag, í miskun Føðursins fagni, og fái af gleði dag! bið eg þess af blíðum mó, hér skal þrotna hróður minn, heiti hann **Ekkju ró.**

# Faderni

Kallast kvædi þetta, kénnandi hvør ad sé skylda foreldranna vid børnin.

1. Fadir og módir heyrid hér, hvør ad ykkar skylda er; Gud hefur fjølgad ykkar ætt, med æru, heill, og blessan gædt, af ykkur hafid þid ávøxt gétid, og einnin fædt.

2. Børnin eru Guds ástgjøf; géfid honum í stadinn lof, afkvæmi og ykkar kind, á sér ber síns Skapara mynd; afþvær skírnin Adams flekk, og erfda synd.

3. Ef Kóngurinn einum gérsemi géfur, gøfugann naut ad skeink sá hefur; Klenódíum og kjørgrip þann, keppist vid einn hygginn mann, ad forvara svo fargist ei, því féssjód ann.

4. Aedsti Kóngur ávøxt lífs, undir brjósti lætur vífs, frjófgast þar, og framleidist, fóstur af þeirri myrkri vist, fyrir Guds handa frægann mátt, og fagra list.

5. Drottinn hefur sinn miklad mátt, og miskunsemi á þennan hátt, ykkur frómu fedgin vid; foreldrar nú heitid þid; fyrir því hafid fedra og mædra fagrann sid.

6. Børnin eru hid fegursta fé, finnst ei slíkt á jørdunni. Þau hefur Drottinn dýrra keypt, enn

Draupners hagl, sem verdur steypt. Farid svo med, þid fáid af sæmd, en flýid heipt.

7. Barn sitt hvør einn elska á, sem eilífur Fadir himnum á, sínum einka syni ann. Í Sonarins nafni hjúkra kann, arfleidíngum er sig reida uppá hann.

8. Helgra manna hjørtu sín, hafa unnad børnum sín, Davíd og Jakob drýgdu grát, daprir eptir sona lát, Anna Tobíæ síns saknadi, sjaldan kát.

9. Mælir Gud, ad módirin góð, mun sitt ei forláta jód, og Fadirinn aumki sonu sín, ef sjer þá lída nokkra pín, géfandi eigi grjót fyrir braud, medan góts ei dvín.

10. Afkvæmunum til adstodar, eru sképnur málausar, hænan úngum vængja vørn, veitir, svo ei grandi ørn, edlid vill menn ástir leggi á sín børn.

11. Í þann eina máta þó til fanns, ad þokka og hylli Skaparans, æru sinni og andar frid, einginn lógi fyrir sinn nid, fyrrandi sig himna høll, fyrir holdsins sid.

12. Apinjan fær eingann prís, sem of-fast klappar sínum grís, þar til hann úrvinda er; yfirmáta hvad sem skér, lídum æ til lýta snýst, en lofstýr þver.

13. Barninu sá sem vel nú vill, varist hýgginn

dæmin íll; skyldugur er um tægið tvennt, til mønnunar úngum hent, lífs og sálar bjørg sem bæti, er brauð og ment.

14. Meira verð er mannsins ønd, enn magi saddur og auðug hønd. Fyrst af øllu fljótt sem má, skal flytja børn að skírnar sá, og handselja þau hæstum Guði himnum á.

15. Samúels móðir Anna ein, ønnur María jómfrú hrein, við sína niðja svo hafa breitt. Sá eð trúir og skírn er veitt, í gleðinnar ríki geingur og er með Guði eitt.

16. Aðgjætslu og uppfæði, eiga menn að láta í té, við barn sitt meðan í ómegð er, með ærlegum hátt, sem betur fer, og útvega því erfðahlut ef auðnan lér.

17. Þessi skylda skýn svo bert, að skynleysíngar hafa það gjørt; eitur kyndur bjóða brjóst, og bestíur aðrar, það er oss ljóst, úngum sín til uppheldis, með eingan þjóst.

18. Að auk þessa sem ómaginn þarf, (einhlýtt er ei þetta starf) er upptyptan og agi góður, úngdómurinn svo verði fróður; frægilegre er fordild sú, enn fjárins gróður.

19. Æðstu speki upphaf er, ótti Guðs, það vitum vér; til gæða allra er góð og neyt, guðhræðslan í hvørri sveit; føgur hafandi forlaga tvennra fyrirheit.

20. Í fögrum aga er falid þrennt: fyrst af því er kénnsla og ment, helgra fræda, lofs med list, ljúfra bæna ad innrætist, og sálma saungur, gljúpt svo géd til Guds hneigist.

21. Skipan Guds hér skilja má, skyldu hlýdni hann ad oss á, talar hann fyrir Mósis munn: mín bod skulud þér gjöra kunn, örfum ydar og opna fyrir þeim Ísraels brunn.

22. Um Páska Lambsins innsetníng, allt eins hljódar Guds meiníng, sem útleidslunnar birtir bók, blessadur svo til ordá tók, vid Ísraels menn þá Egyptalands ógnir jók.

23. Serimonía sú skal mín, sattmáls bod hjá nidjum þín, æfinlega og þegar þad, þinn sonur þá spyr þig ad, af hvörjum rökum er helgiteikn-id handtérad.

24. Herma skaltu honum þá, hvörnin þér leyst-ust plágum frá, og lifdud fyrir Lambsins blód, þá létust þau hin heidnu jód, þar af verda í þekking minni þín börn fród.

25. Hér med eiga fedgin fús, ad fara med börnin Guds í hús, (ad eptirdæmi og eggjan Krists, er úngur gékk til musteris) til aflausnar þau einn-in leida og altaris.

26. Fodur-arfur er fegurstur sá, er foreldrar láta börnum hjá, ef sonanna brjóst er svo mentad,

að sjálfir hnígi Guði að, með frægri rækt, og framvegis komi í foreldra stað.

27. Ef børnum er það brjóstvit lént, til bóka náms að verða hent, og foreldrar hafa fäung þar á, með fé eður gunst þeim kosti að ná, heiður er þeim til hærri skóla að halda þá.

28. Hinum við væna handverks list, að halda, er best, sem allra fyrst; því ýdjuleysið úngann mann, til íllsku gjörir framlútann; er sá sæll, sem aldrei hrapar í það bann.

29. Lukta kérin leingst af því, sem látið er í þau ferskt og ný, sé það sætt eða súrt og ramt; síður, og tiptan hafa þann skamt, það úngur nam, mun øldrúðnm verða einatt tamt.

30. Þæmið gott það annað er, aganum sem að tilheyrir, að siðferði hafi foreldrar frítt, fremur er því enn orðum hlýdt. Bráðgjør nema børn það sem í bæ er títt.

31. Drekkíngar og dauða søk, Drottinn leggur á þeirra møk, sem þjófnað brúka, lygar og last, eða lítum sínum hrósa fast, svo mítur lítil megi børn af mannspillast.

32. Krabbinn talar við króga sinn, kreikaðu réttur sonur minn, ansaði grís sem innir hér, aldrei sá eg það fyrir mér, eg læt mér nægjast, ljúfi Faðir, að líkjast þér.

33. Umvøndunar orðin snørp, og vandarins

hirting skørp, þridji hluti agans er, ádur enn lund=in verdur þver, fáir eda eingvir finnast úngir fullgjørdir.

34. Frá æsku = tíd með allann sann, til ílls vill hneigjast náttúran; í úngdóms huganum bernskan býr; burt hún undan vendi flýr, en agalaus í vømmum vex, sem villidýr.

35. Því áminnir Salómon sæll, ef sonur þinn er ekki dæll, vøndinn láttu vinna hann fyrst, medan von er til hann leidréttist, svo hyggnist barn, og hafir þú sídan hjartans lyst.

36. Sírakk vitur sídspekíngur, sømu kénníng uppástíngur: ekki láttu úngdóminn, allann hafa vilja sinn, svo hans ofþrjótska hrelli ei sídar huga þinn.

37. Ad barna þinna brekum skalt, brosa ei, né skémtun haldt, óvanda þeim eingann líd, í æskunni þau tem og hýd; annars hefur þú ángur af þeim ár og síd.

38. Hóf á þessu hittist lítt, í heiminum það geingur tídt, einn er of í strøffun strídur, strákskap allann hinn umlídur, en svo fer ad óhóf bádum eptirá svídur.

39. Strángur agi sturlar børn, stadlaus verda og ýlugjørn; foreldrar meiga fara með vønd, þó fleingi ei eins og bøduls hønd, varga klærnar veikum þannin vinna grønd.

40. Þeim offstopa viðvarar, vitur Páll, þér foreldrar, ýfið ei með ertíngum, yðar börn í grell-skøpum, hér bannar hann líka bölf að hafa yfir börnunum.

41. Eingu síður er oflinur, aginn barna skað-legur, því það er Drottins boðorða brot, sem bagi fylgir og auðnu þrot, af ofmiklu hafa menn eptir-læti eingin not.

42. Sírakk bæði og Salómon með, í sama anda hefur téð, ef heimskum syni hampar þrátt, hann þú síðar varast mátt; yðrast sá sem únglíng tekur yfrið dátt.

43. Ef úngmennið agann brestur, ólmast það sem galinn hestur, á móður þess sú mínkun hrín, sem miklar føðursins hjarta pín; því ófyrirlát-samt ekki lætur af upptekt sín.

44. Hvør sem sparar að hirta barn, hann er ekki ræktargjarn; við boðorð Drottins bágur og þver, en bagalegur sjálfum sér; ábirgð hefur á únglíngs hag, ef illa fer.

45. Eins og hendti Elí prest, arfa sinna vissi brest; báðir fylltust bølvunar, blygðun eingin með þeim var; en hann lét þá ei heyra til sín høst-ugt svar.

46. Sverðs fyrir eggjum sæfðust þeir, synda þrælar báðir tveir, en sem prests að eyrum

þaut, ógóð fregn, úr stóli hraut, svo herða þúng-
inn höfuðið sveigði, og hálsinn braut.

47. Grályndt barn, sem Guði er stygð, gjörir
opt sínum föður hrygð, öðrum hneigsli af því
skér; óvin þjónar,' en glatar sér, fyrirferst, og
fæðíngar degi formælir.

48. En sá sem ratar mundángs mið, og með-
alhóf, um tipt og sið, getur sjeð sinn gráta son,
glaður er hann í þeirri von, síðan gleðst sem Sír-
akk spáir og Salómon.

49. Hirtíng gjörir hyggindi, á holdinu þó hún
ómjúk sé, vitur sonur að vísu gleður, veika móður
og gamlann föður; því hylli manna og Herrans
ást, er honum meður.

50. Sá rétt venur syni og dætur, sinn óvin
hann hryggjast lætur; en ástmenn fagna sem það
sjá, þó sofni faðirinn burtu frá, þá er sem lofsæll
lifi ætíð láði á.

51. Ugglaus deyr sá maður mætur, því maka
sinn hér eptir lætur, sem heiptar mönnum hrund-
ið fær, en hugnast, og er vinum kjær; með frægð
og heiðri föður síns í fótspor nær.

52. Feðginum með forsjá ber, fulltíða þá barnið
er, sveinum kjósa sæmdar ráð, svo jafnræði
feingi náð, leggja þar til býti, blessan, bæn
og dáð.

53. Svo eiga þau með sama slag, að sjá um

dætra ráda hag; allvel fer ad úng kvenns = nipt, óbernskum sé manni gipt; allmiklu er aflokid þá audi er skipt.

54. Enn med því ad elska manns, agi, tilsjón, veitíng hans, hvørgi tekur, ef hjálpar rád, af hædum kémur ei ofan á láð; bæn foreldra best útvegar børnum náð.

55. Eins og Job med offurin sín, árnadi náðar børnum sín; úngum vodinn er náſtædur, ætíd skulu því fedur og mædur, adstodar þeim óska af Gudi er øllu rædur.

56. Fylgja þessari foreldra stétt, fimm skyldur, sem eg hefi sett: elska, fóstur, agi góds, ad rádstafa og bidja góds; svinnir munu ei svoddann taka sér til móds.

57. Arfa sinna ektapar, ei meiga hindra foreldrar, fyrir sitt eigid gagn og glis, Guds án boda og tilefnis; því børnin kunna ad bída af því baga og slis.

58. Ef bogna kann ad bresta seym, og børnin eiga ad veita þeim, med þýdu gédi og þokkum ber, ad þiggja þad fyrir hendi er, svo olli ei, þángad inn sér smeygi, óvildir.

59. Þeir sem eiga þægileg jód, þykir mér lukka mikil og góð; svo gumnar rati ei gjæfu rán, Gudi þakki sitt barna lán; manndádugir munu þá fara mis vid smán.

60. En þar børn eru óstýrilát, auka fødur og módur grát, eins sem Kain og Absalon, er þad foreldrum reynsla og tjón; um brjóstgjædi þá bidja verda bædi hjón.

61. Einkum varist fegdin sín, fúl-egg gjøra úr børnum sín; illa fer medan upp er fædt, eitt sé med tilhaldi klædt, en afaskipta ójøfnudi annad grætt.

62. Forsugann eg frátek nid, því fleyri høgga þarf hann vid, heldur enn sú hlýdna kind, sem hastyrdum ei slær í vind; verdskuldar sá vænna atlæti er varast synd.

63. Ef einhvør ber sig óskyldt blód, annars manns ad fóstra jód, ærinn vanda undirbindst, er hann sæll sem vel þad vinnst; ad vísu trúi eg þess verdi opt med virdíng minnst.

64. Þar úngbarn nokkur annast eitt, er Kristó sú velgjørd veitt, fóstrin gángi og fóstra þá, í foreldra stad, sem verda má; Jóseps dæmi Maríu manns, skulu minnast á.

65. Aminni eg hér einnin þann, sem ad sér tekur fødurlausann, víst má sjá sig vel umkríng, hann vondt ei sýni Guds veslíng, annars snýst honum athøfn sín í óvirdíng.

66. Ef ekkju-børnum eikur styggd, ýfir hann gamla módur hrygd, hvørri hann huggun hét í

stad, þá hennar sér til ekta bad; víst mun honum (ef vel skal fara) vandlifad.

67. Sama vanda brúdurin ber, sem barna manni føstnud er; þar hún eignast adaltréd, eignast verdur kvisti med, svo hvørutveggjum sýna kunni sama géd.

68. Gódrar konu gljúpum nid, grimmilegt er ad stugga vid, sem módur kjærrar missir beid, mannskadinn er hjartsár neyd; Guds þøkk er þá grættu ad hugga, svo géti þreyd.

69. Apa má ei únglínginn, né ergja vid hann fødur sinn; eda ræna því sem barni bar, sú breitni full er ósæmdar; þó hafi svo stjúpur heimskar gjørt og hardrádar.

70. Taki hvør mark á sjálfum sér, fyrir sitt barn, ef hann ætti kjør, hvilíkt vildi hjartalag, horfdi ad því eptir sinn dag; og munadarlausum mæli út heldur mildiplag.

71. Hvar sem svo er háttur á, horfid er annad foreldrid frá, vandt er því sem eptir er, (einkum ef sig samteingir) vid ekta-persónu adra, svo sem optlega skér.

72. Einu er þá auga hætt (í ordskvidnum er þannin rædt) vid módurleysíng ef fadir er fár, edur fødurleysínginn módir smár; valla er von ad vandalausum verdi skár.

73. Stjúpforeldrar strák-lyndir, stórt ámæli

kaupa sér; en fadir vondur móturlauss manns, og módir slæm fødurleysíngjans, med stærri skømm hafa styrkin dæmi strúthegrans.

74. Med réttu verdur ei børnum bægt, burt frá skyldri foreldra rækt, á hvørn veg sem afkvæmin, í ættina eru tilkomín, líka þau lastlega eru laungétin.

75. Annars laga-brot er bert, og børnunum stórlega órétt gjørt, ef foreldrarnir fyrir sín vøld, fárádlíngum verda køld: saklaus grís fyrir svína breytni sekkjar gjøld.

76. Endast verdur orda-spjall, á þad séi hvør barna-kall. Eilífur Gud sem allt gott má, alla saman stydji þá, ad ala upp børn, svo ødlist føgnud eptir á!

77. Lifandi Gud sem láni rædur, lúnar styrki barna mædur; med úngum leggi braud á bord, blessist hvad eitt fyrir hans ord! Fadernis eg festi nafn vid fræda spord.

# Barna-Regla

## um þad, hvad þau eru skyldug foreldrunum.

1. Børnunum býd eg kvædi, þó brag-smíd verdi sein; næm vilda eg hér nædi, nokkri lærdóms

grein, hvørnin ýngri og eldri, eiga að stunda góð, feðra og mæðra með.

2. Eg kann upp að telja, átta hluti hér, og í sannleik samanvelja, sem børnunum ber, við foreldra frammi að hafa, frá úngdómi strax og allt til andláts-dags.

3. Børnunum ber að unna, bæði føður og móður, og kjærleiks jøfnuð kunna, kostur er það góður; ehlið øllum kynnir, að ei sé betur enn gjørt, og góðs sé vilja verðt.

4. Fyrst ástir ofan að hníga, optast nær til jóðs; ef upp ei aptur stíga, ekki er viti góðs; sá niðji er náttúrunnar, níðíngur og grey, sem foreldra elskar ei.

5. Sín í heiðri hafa, hljóta erfíngjar, feðgin, ømmu og afa, án forøktunar, af hug með høfði beru, hýru ávarpi, bligð, og beygðu kné.

6. Og þó ypparlegri, að auð og nafnbót sé, og stýri sællra sigri, sonur enn foreldri; fjórða boðorð býður, að barnið føðurinn, **heiðri** í hvørt eitt sinn.

7. Í heiðri Jósep hafði, hærðann føður mjøg, svinnur síst við tafði, að sækja hann uppá veg; burt úr sæti sínu, Salómon Kóngur gékk, og móður fagnað fékk.

8. Þá Móses mági kjærum, mætti á breiðri slóð, ljúfur laut hans hærum; lærið børnin góð,

foreldrum vyrding veita, virdta dæmin slík, eru dýr og dygdarík.

9. Ottinn er hid þridja, eiga foreldrar, hann ad hvørjum nidja, svo hógvært géd og svar, fram vid fedgin komi, fyrir sakir þess, þau hafa einn hærri sess.

10. Þau standa í stóru umbodi, hins sterka umvandarans; þad er vidsjár vodi, ad virda ei skipun hans; þeirra ord skulu akta, allt eins børnin fróm, sem yfirvalds dýrann dóm.

11. Barn med hlýdni hlýtur, ad hugnast foreldrum; síns því sérhvør nýtur, á seinni tímunum, audsveipnin er allra, ypparlegasta dygd, sem varnar strídi og stygd.

12. Hlýdid barn ad heita, heilla veg má tjá; vinsældir kann veita, virdingar titill sá, þeim sem ad því er kunnur, hann þóknast foreldrum sín; audlegd á honum hrín.

13. Þó skal med því móti, mønnunum hlýdni téd, ad børnin ekki brjóti, bodord Guds þar med, né hnekki heidri sínum, og hylli vondra síd, svo raskist réttlætid.

14. Hitt er af dýrum dádum, dygda børnin hrein, føgrum foreldra rádum, fylgi í hvørri grein, svo vel sýnir sem dætur, þá sér ad ekta hag, leita og lukkuslag.

15. Hast og hyrting strída (sem høldum vyrd-

ist þúng) børnunum ber ad lída, bernsk medan eru og úng; því lukka og lífsins vegur, líeíng agans er, sem æsku-vømmum ver.

16. En sem únga hygnar, aldur og reynslan med, en foreldrum hreystin hnignar, og af hrumleik slurlast géd, þeirra brek umbera, børn eru skyldug þá, en lasta ei né lá.

17. Þó stórlynd steypi brædi, á slygdarlausann nid, sem breisklegt barna ædi, beint skal upptekid; því vid þau kappi kíta, ef kemur í skapraun heit, deilu eg vesta veit.

18. Eins og þau umbáru, óvitsku og brek, vor á æsku árum, ædi mørg og frek, eigum vér ellitíma, umbera med sann, ef foreldrum førlast kann.

19. Ef ysirbodurum eigum, íllum hlíeni ad tjá, vid foreldra framar meigum, fíngur í gegnum sjá; ord sá ei þeim líeur, aldrei bídur hann grid, þeim honum þóttast vid.

20. Þá børn eru búin ad mannast, ber þeim foreldra sín, þrotna ad ala og annast. Er þad meiníng mín, ad hér fyrir nitjar heiti, hrumra ellistod. Þeir fylla þid fjórda bod.

21. Jacobs bur svo breitti, vid bjarglaust fødur-hús, nógar vistir veitti, og var til þessa fús; David foreldra flutti, frægur í Móabs land, þá hrædist heljar grand.

22. Dió hin ræktar ríka, Ruth fyrir Naemí, þó hefdi ei fé ad flíka; fljódid lifdi á því, sem trúlynd tilafladi; trautt mun þvílík ást, hjá sonarkonum sjást.

23. Sona og dætra er sómi, ad seilist rækt til blóds, svo opt í aldurdómi, óski foreldrum góds; því allar adrar skyldur, ekki hrífa par, án Guds adstodar.

24. Medan mál ei fáum, né mannvit til bænar, fyrir æsku einskis gáum, óska oss foreldrar, allrar gæfu af Gudi; gjøra þad børnum ber, þá hinum í hrørnan er.

25. Þá foreldra endast æsi, ørendt þeirra hold, nidjunum hygg eg hæfi, ad hylja í vígdri mold, med ærlegum umbúnadi; ærlegt þetta starf, seinast þyggja þarf.

26. Frægstu foreldra synir, fedra grófu lík, þeir ljúfu og líka hinir, lofast velgjørd slík: Isaak, Jakob, Jósep; Jesúm einhvør bad, um leisi ad þjóna þad.

27. Fóstra eg førøktun banna, sem foreldra gánga í stad, børn ad menta og manna, mun þeim vandlaunad, mér-sýnist svo sem undir, sama skilyrdi, þessir því nær sé.

28. Sex hluta fyrir sakir, sjálfskylda þvílík, í vitund manna vakir, vidløgin eru rík; Guds

bod frá eg hið fyrsta, og føgur heilrædi, skráð í skriftinni.

29. Efst á aptara spjaldi, er bífalníng sú, (sem herrann vill menn haldi, af hjarta og góðri trú) nærst hugnan og hylli, sem heyrir Gudi til, svo foreldrar fái skil.

30. Í løgum Levítanna, líka finnst það skráð, og fyrir munn frómra manna, af friðarins anda náð, svo sem sjá má víða, í Salómons orðskvið-um, og Sírachs sannmælum.

31. Í Tobjæ mjúku máli, má og hittast það, og svo hjá Ste. Páli. Sérhvør hyggi að, Guð og hans elsku andi, af ást og líka magt, børn-um svo hafa sagt:

32. Þú skalt virðíng veita, væna foreldrum þín, sem heiður þinn má heita, og hugnast augum mín, með ótta og undirgéfni, einnin hlíðni tjá, en aldrei að forsmá.

33. Sýn þeim sínnis gædi, og í svørum eing-an hnjóð, við þau haf þolinmædi; þar með verk-in góð, að elli annmørkum þeirra, aldrei hæða skalt, til góða hrumleik haldt.

34. Í elli skalt þau annast, en einga veita stygð, veik svo við meigi kannast, væna þína dygð: gleð þau lífs, en liðin, legg í hvíldarstað; það finnst allt forskuldað.

35. Skaparinn því næst skyldar, sképnur allar til, sem ei eru edlis tryldar, ad afkvæmin þau skil, inni þeim af eru komnir; allt eins løgin klók, má nema í náttúru bók.

36. Heidnir hafa þad lýdir, í hugvits ljósi sjéd, vyrdt sú vel tilhlýdir, ad vináttu bragd sé téd, foreldrum, sem med fyrsta, fæda børn í heim, og í ómegd þéna þeim.

37. Annáll einn þad greinir, uppteiknadur í Róm, ad karl af klæks meini, kom þar undir dóm; fjøtradann oldúng átti, án næríngar brauds, svelta senn til dauds.

38. Dót ur átti hann eina, eigingift var fljód, kvenndygd hún bar hreina, hafdi á brjósti jód, hrygg fékk hvørn dag leyfi, ad hvaifla í prisund inn, á fund vid fødur sinn.

39. Umskygnd votta eg væri, af vøkturum til sanns, hvørt átur eingar bæri, inn til daudamanns; lidu svo lángar stundir, lifdi karl á fold, og lét ei hams né hold.

40. Yfirvald undrast þetta, og um sídir høfdu, seima sól, til frétta, og sannleiks hér um krøfdu, vard þá brúdur ad birta, á brjósti hefdi sprund, fødur sinn fædt um stund.

41. Fljódid fékk þá æru, en fadir'nn lífsins grid, hátt var hrósad kjæru, og ad heidíngjanna

síd, býlæti tilbúid, svo blífi dæmid ljóst, ad karl saug konu brjóst.

42. Ykt er ei né logid, um art þá storkurinn ber, ef fadir hans gétur ei flogid, né fædu út-vegad sér, á bak þann lasna leggur, og lætur uppí hann strá, ad næra hans elli á.

43. Fugl þá fugli umbunar, fóstur, er úngur þá; allt ofmiklu munar, ef menn þess ekki gá, foreldra sína ad fóstra, þar faung eru börnum léd, en þreyttir þurfa med.

44. Sudur í Sikiley ádur, (segjá því bækur frá), uppkom eldur brádur, í borg Kathana; flest-ir vildu forda, fé og dýrgripum, burt úr brun-anum.

45. Aldrada foreldra áttu, ýngismenn þar tveir, dýrrar dygdar háttu, og dreingskap sýndu þeir, födur og módur møttu, meir enn drupners skúr, og báru þau báli úr.

46. Numu af náttúrunni, nám þad heidíngjar, því løgmál brjósts í brunni, bjó þess jafnadar, óskúdra sú æra, oss til skammar snýst, ef foreldr-um sínum síst.

47. Þá eru í þridja máta, þeir velgjørn-íngar, sem optast í té láta, ærlegir foreldrar, vid børn á únga aldri; eiga þar koma á mót, fyrr-greind heidurs hót.

48. Tobías karl svo kénndi, kjærum arfa sín,

með ljúfum hug og hendi, hjúkraðu móður þín, alla hennar æfi, og athuga þá neyð, er fordum fyrir þig leið.

49. Frómum foreldrum sínum, sem fullu launa kann, og lærifeðrum sínum, finnst sá einginn mann; en andinn segir: hið illa, ósanngjarnann nið, skuli ei skiljast við.

50. Hið fjórða er börnin blíðu, best hér tilløkkar, er fyrirheit Guðs hin fríðu, sem farsæld trúlofar, frómum nið á foldu; foreldra því hér, rækta rétt sem ber.

51. Lofan fylgir fögur, fjórða boðorði sú: heill fær hlýðinn mögur, hét því Guð í trú, á landi lifandi manna, lánggjæður muni sá, ef ekki af því brá.

52. Ef sonur í heiðri hefur, með hlýðni feðgin sín, miskun Guð honum gefur, og gleymir ei í pín, hann mun lifa því leingur, likn á straffi fá, þó megi sig mis-sjá.

53. Gégnir Guð hans bænum, gleði af börnum fær; sjóð sér safnar vænum, signuðum Guði er kjær; eins og ís fyrir sólu, afmást syndir hans, blessast svo til sanns.

54. Því sjálfur Drottinn segir: ef setníng geimir minn, og hjarta þitt tilhneigir, að halda boðorðin, á þér allra handa, eðla blessan hrín, lofuð af munni mín.

55. Dæmi beſtu barna, bera hér vitni um, ſem foreldrum gégndu gjarna, þau giptuſt heill- unum, ſignadir ſynir Nóa, ſem og Jafet tveir, bleſſuduſt bádir þeir.

56. Iſaak audſveipnari, öllum börnum var, þá fórnar ad altari, eldividinn bar, líftjón lída vildi, lét ſér koma í bönd, fús af födurs hönd.

57. Samſon ſig þegar gipti, ſagdi foreldrum til, þekktiſt þad hlutſkipti, ſem þeim var helſt í vil, Jakob mikils matti, módur rád og þel, og einnin Iſmael.

58. Rekabs ſonar ſynir, ſálugs födurs rád (í einurd aldrei linir) ei létu forſmád, vildu vín ei drekka; því var af födur þad, þeim frændum for- bannad.

59. Peſsir og þvíumlíkir, þéntu foreldra lund, því ödluduſt audnuríkir, óſka marga ſtund, fyrir- heit Drottins fyllaſt, fögur vid þá ment; ſvo mun æ og enn.

60. Þad fimta er framm má knía, fyrirlát- ſamann nid, ſagdar dádir ad drýgja, dygd og ferginn vid: hótanir Herrans eru, og hefnda ſtórra von, er ſtefna á ſtyrfinn ſon.

61. Því Herrans lög ſvo hljóda, og hardar Méſis ſpár, Salómons ſögnir fródar, og Sýr- aks frædin klár; ſá födurinn fyrirlítur, og for- ſugur vid módir, bann og bölvan er.

62. Drottinn sjálfur segir: sú er á'ykt mín, eg vil sá dauda deyi, sem bjarft slær foreldra sín, hel skal hér med gista, hvør þeim rís á mót, med hatur, bølv og blót.

63. Foreldrum sá er sínum, sæta ekki vill, skal mæta miklum pínum, minníng hans er ill, svo Herrans fó:k ei hljóti, af henni skømm né last, hann skal helgrítast.

64· Nidjinn fólsku frekur, sem foreldrum eykur þrá, í dreita sjálfs síns sekur, segi til allir já! ef auga hans ad þeim hædir, af arnar úngum skal, hremt úr heila sal.

65. Odæmi illra vitna, opt hafa frammkomid; bannfæríngar bytna, á balstírugum nid, Kain brótur bani, bølvunar þad skeid, med Fjandanum fyrstur reid.

66. Kam ad fødur kímdi, kølsugur fyrir þad staif, frá blessan barn hans rýmdi, bølvan tók í arf; ofmjøg úrkynjudust, Ofni og Fineas, daudlegt feingu flas.

67. Absalons allir meiga, ódád hafa spurt; fødur sinn vildi feigann, og flæmdi af ríki burt, ólukku aumur krakki, umbun af spjóti fékk, á hári í eik þá hékk.

68. Adonía og gjordi, uppreisn, bródir hans, drapst fyrir Salómons sverdi; sá þad vettur

lands; hvør með hlýðni eigi, heiðrar føður sinn, þann bukkar böðullinn.

69. Sjötta í søgðu næmi, sem fyrir børnum stár; er Jesú dýrsta dæmi (dygða speigill klár) hans heilagrar æsku, er hyltist Guð í senn, og einninn yfirmenn.

70. Til kyrkju foreldrum fylgði, og føðurs rækti vild, vitur við þan skildi, á vísdóms þeinkti snild, kom til kénnimanna, og kjænlega spurði þá, að Guðs orði réð gá.

71. Með fóstra og fríðri móður, ferðaðist síðan heim; hlýðinn og hjarta góður, hugnaðist líka þeim, óx að aldri og vitsku; er það barnið sælt, sem svo er sinnisdælt.

72. Þá sorglega sína móður, sá hann krossi hjá, henni hjarta góður, hugbót mælti þá, brúði bífalandi, besta vini á hønd, áður enn uppgaf ønd.

73. Slíkt skal huginn hvetja, í hvørjum frómum nið, foreldra eingu etja, utan góðu við. Heiður er þessu að hlýða, en hafna, bitur og rømm, bølvan, brixl, og skømm.

74. Drottinn dygðir fjølgi, dántis børnum með, þeirra hjørtun helgi, svo hlýðið øðlist géð, og gleðji heldur enn græti, góða foreldra sín! er það óskin mín.

75. Mál er þulu að þagna; þiggi hyggin

jód. Ef hugleida hag'eik sagna, hér af gjørast fród. Bid eg ad Barna = Regla, bragurinn heiti minn. Nóg er sagt um sinn.

## Æsku Blóm.

### Er kvædi, hljódandi um gudrækilega og prýdilega hegdan úngdómsins.

1. Æskan kallast æskiblóm, eins og morguntími, ef hún ærleg finnst og fróm, svo frægd er ad, í sérhvørn stad, lífs hátegi læt eg þad, ljóda nefnt í rími.

2. Vandfarid er med vænann gríp, svo virdar honum ei spilli, æskan hefur félegann svip, svo er þad rædt, ei fyrir þrætt, fyrir margri sé henni hrøsun hætt, holdid nema sig stilli.

3. Audi Guds hefur úngdóm frædt, med ágjætasta næmi; vilda eg þessu væri sætt, vort því hér, hid besta er, athugum því hvad eptir fer, ord og hei'øg dæmi.

4. Æru og vísdóms upphaf er, ótti Guds hinn hreini; audnu og heillir allar lér, á minn sann, gudhrædslan, sem án ad vera er eilíft bann, øllum verdur ad meini.

5. Otti Guds er øllum víst, edlaskart og króna, en æskudómnum ekki síst, aflar sjóds, mikils og

góds. Reis þar heill af Jakobs jórs, ad Jósep Gudi nam þjóna.

6. Því áminnir Salómon sæll, ad sérhvør midt í æsku, minnast skuli dyggur og dæll, á Drottinn þann, Skaparann, í fyrstu gjørdi ad mynda mann, mildur af sinni gjædsku.

7. Og enn þó megi æskan frøm, áfús vera til kjæti, leikótt bædi og lystisøm; letri í, rád fyrir því, Salómon gjørir, og segir frí, svoddan eptirlæti.

8. Ungmenni (segir hann) gjør þér gladt, í gódu æsku-tómi, svo augun fáir og sinnid sadt, af sætri lyst, núna fyrst; ad gjørdum þínum gá mun víst, Gud á efstadómi.

9. Má því aldrei í gledi né glaum, gleyma hans vandlæti; né gésa svo holdsins girndum taum, ad Guds ótti, ekki sé, annars vegar í umgeingni; vær erum í vondu sæti.

10. Drottinn vor því ad oss á, vær offrum honum því besta, af æsinni vorri; eitt því má, æskan tjást, hún er skást; ættum til þess ljúfir ljást, ad láta ei viljann bresta.

11. Frægrar æsku hid fyrsta skart, frá eg þetta hid eina, sem gott fær bædi mikid og margt, med sér fært, Gudi kjært, mønnum gott, og mjøg audlært; mun eg hér kunna ad greina.

12. Ef þú Gud fyrir augum hefur, í

öllu náðar tómi; í athugaleysi aldrei sefur, áкallar, hann sem bar, athugar hvað þitt upphaf var, og allur lífsins sómi.

13. Upphaf lífs og aldurs glas, og æsilok má jafna, við foldar blóm og fagurt gras; følna senn, allir menn; til einkis er, þó ágirndin, öllu vilji safna.

14. Ahyggju þinni ef þú kannt, uppá Guð þinn fleygja, gjörir þér um ekkért annt, í honum klár, von þín stár; blessaður muntu um öll þín ár, einnin farsæll deya.

15. Hvörnin kann sá úngur er (að nam Davíð frétta) sinni breitni í heimi hér, haga vel? eg andsvar tel: ef orði Guðs með auðmjúkt þel, eptir vill sig rétta.

16. Þó margt hvað hafi þér misunnist, á móti Drottins ráði; að lifir þú samt og leidréttist, ljúft sér kvað, Herrann það; fyrir blessaðann Kristí bænastað, bið þú að Guð þig náði.

17. Endurnýúng íklæðstú, eins og nýum manni, og að Drottni alhug snú, einúngis; þar í viss, að hjálpa mun þér helgun Krists, frá hörðu synda banni.

18. Æsku regla er önnur sú, sem eptir skyldi breita, úngdómur og einnin frú: illt samlag, nátt sem dag, fordast, sem að flekkar hag, en félags góðra að leita.

19. Hjá gömlum mönnum gjarnan ver, sem

geyma stór hygginði; og lát í eyrum loða þér, lífs orð hrein, og málsgrein, guðspjallanna, er gleðja bein, og géfa sálum yndi.

20. En eptirdæmin ill og ljót, opt villa þann góða, og kitlandi sýsnin fljót, forðjarfar, þann sem var, meinlaus, og án mótgjørðar; Meistarans orð svo hljóða.

21. Son minn góði! (Salómon tér) sjá til ei þig villi, dárlegir menn, og dragi að sér, því drusé-legt hjal, stráka tal, segir Páll með sannleiks skjal, að siðunum góðum spilli.

22. Abraham meðan átti vist, hjá Ur í Kal-dæalandi, með sínu fólki í ljótri lyst, lifði þar, og heiðinn var, af vilja Drottins vissi ei par, vafinn í synda grandi.

23. Ef þaðan ei sig hefði haft, hólpinn ekki væri; Lot hefði einnin lífi tapt, lopts af glóð, hans og jóð, ef samlagast hefði Sódoms þjóð, og sjeð ei betra færi.

24. Ef komið hefði ei í Kaiphæ sal, kjør post-ulinn Pétur; þeigi hefði það vannval, trí-neitað, eg veit það, sínum Drottni, og sér bølvað, þar sjálfur vissi hann betur.

25. Hvør sem tekur tjørunni á, tiltøkumál er eigi, þó sig meigi saurga sá, sæll er því, hvør sem frí, vélrædum vefst eingum í, á illra manna vegi.

26. Priðja æsku-regla og ráð, rann-gott fyr-

ir hinn únga, Sírak kénnir svoddan dáð, og sit-ugann hátt, að mæla fátt; skaðleg er og skrum-som þrátt, skrafinna manna túnga.

27. Lát hinn gamla sína søgn, segja út í fyrstu; hinum únga hæfir þøgn; hún því er, skaðlaus þér, þá eins ansa, ef þørf gjørir, þó í máli styttstu.

28. Lát sem heyrir furðufátt; fleipra ei allt sem vissir; torfundin er trygð og sátt; tala þú vart, en ekki djarft; trúlyndið, sú edla art, ást og hylli ei missir.

29. Þó nefnt hafir þú um náúngann heyrt, nokk-uð í slæmra lagi, fer svo best það fái eyrt, fólgið og leynt, en ekki greint; ef við þá þøgn þér verð-ur ei meint, vildi eg það með þér dæi.

30. Svoddan trygð gjørir samvitsku hægð. Sér-lega er þó sljóðum, þøgnin kostur, og þar með frægð; en þvert á mót, er úngri snót, ósvinna, ef orða fljót, of-frøm lítst hjá þjóðum.

31. Þess er gétið um Maríu mey, hún mælti alls fjórum sinnum; hennar optar hérmt er ei, hei-lagt mál; þøgul sál, ætti að vera, en orða-brjál, ei hjá dándi-kvinnum.

32. Einnin þagði Elíhu, ýngstur Jobs af vin-um, meðan þeir eldri tøldu trú, tjáðum rekk, er sat í sekk, seinast fram með sitt mál gékk, svo tók við af hinum.

33. Æskudómsins fjórða frægð, og føgur hátta

þriði: eldri mönnum alla hægð, æru og dygð, tjá með blygð. Virða þá, en veita ei styggð. Vil því úngir hlýði.

34. Heiðursverðug elli ár, eru þeim kiýnd með sóma; að gamallra manna hin hvítu hár, hörku-skérð en æruverð. Þeir sem helgra fylla ferð, fagrir í dygðum ljóma.

35. Guð hefur skipað gráhærðann, göfga með lotn-íngu, og elli hníginn að mikla mann, með mjúkt viðmót, orð og hót; ellina höldum ærubót, æskunnar drottníngu.

36. En heiðurinn sá sem hærðum ber, hyggi að maður og sæta, í fjórum hlutum fólginn er; 1) hans föðurs-ráð ei séu smáð. Róbóam misti lukku og láð, þá lítt þess vildi gjæta.

37. 2) Umlíða skal hans elli brest, þó aldraðann bernsklegt hendi; að honum hæða er allra verst, þann íllsku dám hafa af Kam, sem spotts af sínum glósum grám, gilda bölvan kénndi.

38. 3) Hugul skal honum hlýðni sýnd, og heilnæm undirgéfni; með óstýrilæti ei má brýnd, ellin þjáð, lyndis bráð. Ísaak fékk þess úngur gáð, það útvalda manns efni.

39. 4) Er hið fjórða ellistoð, eigum þeim að sýna, hjóðar þar um Herrans boð, og helgra flest, dæmin best, Jósep föður sinn matti mest, þá megnt nam húngur pína.

40. Er sú fimta æskument, sem úngur skyldi

læra: það er **iðni og handverk** hent, svo hreisti nægð, líkamans hægð, neyti sín, og fái frægð; fremð er slíkt og æra.

**41.** Letin og ýðjuleysið hefur, ljót'egt nafn og heiti; hann á djøfuls svæfli sefur, sem því annvill og kann; við lasta umbúníng liggur þann, að leiður er andlits sveiti.

**42.** Hinn má kallast sóma sæll, í sínu erfiði er glaður; dugnaðarsamur og dyggur þræll, dygðin hans, víst til sanns, er signuð bæði til sjóar og lands, og sá er gjæfu maður.

**43.** Iðjuleysið er andskotans, einka net og slæða; í gildru þeirri grúa manns, gat hann veidt, að sér seydt; á skér það Davíð líka leidt, og lét hann á því flæða.

**44.** Sódómíta sú var ein, svívirðíng hrópandi, upp í himininn ekki sein, yfirkom hefnd, svo sem skefnd; hjá sjø trúi eg øðrum sú ein nefnd, syndin dauðleg standi.

**45.** Heilræði meiga það heita sønn, sem Hjerónýmus kénndi: sjá til, þín sé í óðaønn, iðnin hraust, vor og haust, svo olltíð frá þér erindislaust, óvin þinn að vendi.

**46.** Sjøtti æsku sóminn er: **sig flekklausann geima**; í helgum eignast holtsins kér, hvør og einn, mær og sveinn; sæll er sá í hug er hreinn, hann þarf sér ei feima.

47. Oflekkudum ydur ber, allsendis ad vera, svo sem eg, drottinn ydar, er, innir sá, sem kann og má; svo ydur megi eg hvíla í hjá, med huggun og nád eilífa.

48. Hérfyrir vildi af hreinni mey, holdgan taka skæra, Kristur, en af konunni ei; þad kurteist blóm, jómfrúrdóm, hefur hann kært, og hjörtun fróm, sem hreinlífis kallast æra.

49. Jósephs dæmi er jómfrúm hent, jafnt og sem únglíngum, þar beim er opt med blekkíng bendt, ef bljúg eru ei, sveinn og mey, svo þau kunni ad segja nei, saurugum áreitíngum.

50, Ydar á milli óhreinleik, aldrei skulud nefna, heldur skyldu hjörtun smeik, sem heilögum ber, postulinn tér: á hann sem drígir hneixlanir, herrans bann mun stefna.

51. Rúben fyrir svoddan synd, sæmd og blessan misti; ærdi Sichem ástin blind, fyrir ósæmt vís, tapadist líf; Ammons gyrndin síst var svís, svo ad hún helju gisti.

52. Vid brunnonum lækníng besta er, bæn og öll sparneytni, og hæverskl ega ad hegda sér; því herrans skær, augun glær, fá vel skodad fjær og nær, fólgin rád og breitni.

53. Fyrirgéfi oss fadirinn gódur, (flestir munu þad játa) ad vorrar æsku er veikur hródur; vid

sál glettst, hefnr vest, óhreinnt hold; þann úngdóms brest, allir megum vér gráta!

54. En úngdóms hlídni og æra þín, Emanúel sæti, af bid eg mái ótugt mín! þitt æskublód, hreinst þjód, sem hvarflad hefur af helgri slód, í holdsins eptirlæti.

55. Andi helgi umskér þú, yfirhúd vors hjarta; svo úngir og gamlir æ og nú, æru þá, stundi á! grandvarir ad þeir girnist sjá, Guds ásjónu bjarta.

56. Enda eg hér med erinda són og æskureglur mínar; sex úngdómi sendir Jón, sjónargler, þetta er, øllum þeim sem athafnir, arta vilja sínar.

57. Þeir ýngri skyldu idka þad, sem øldrudum kunna bæri; gott kémur aldrei ofseint ad; ilmur hér, leingst vid er, sá er med fyrsta kémur í kér. Kvædid børnin læri.

58. Sá er gáir, sanna kann, ef seint er, hreint er valla; má nú sjá um manninn þann, sem mátar brag, játar hag, ferskrar æsku dróst vid dag, med dygd og blygd ósnjalla.

59. Ef úngir þeinktu, í æsku sád, ellin mundi uppskéra, sídur kreinktu sitt þá rád, enn seinna meir, reina þeir: snøgglega margur og snemma deyr, snotnr er best ad vera.

60. Dýrd og lof sé Drottui þeim, er dásemd

veitti oss úngum; umbar margann æskukeym.
Allan tíd, fyrr og síd, offrist honum æran blíd,
af engla og manna túngum!

# Veldis Vegur.

## Kvædi um veg og vanda veraldlegra valdsmanna.

1. Herrar í háu sæti, sem høfdíngs rádum frídum, stíra og stórri makt, gløgglega bid eg gjæti, á gróda øllum tídum, er Gud hefur sjálfur sagt, fyrir Davíds munn: þér dómendur sem heitid, Drottins orda leidréttínga neytid; sælir erud ef svoddan vitsku leitid, med Salómons bæn, og løgunum eptir breytid.

2. Sjálfs þekkíng (eg segi) er sæmilegasta lyst, sem hegdan villu ver, ef gumnar á gledi degi, gá ad þessu sem fyrst, sem veitt og varnad er. Moldardupt eru menn af náttúrunni, meina eg því sér einginn hrósa kunni; hugarins liti hljóma í samvitskunni, híngad fædist hvør med spillíngunni.

3. Adams allt afspreingi, eínga manndygd ber, í sinni edlis art; tign því trúi eg eingi, taki af sjálfum sér, né heidur og høfdíngs skart. Ef konu son einn hér kallast ødrum fremur, í kjørheill þeirri mannvirdíngu nemur, Guds af nád sú

gjæfa og forpris kémur; þad geingur til sem hans fyrirhyggja semur.

4. Kórónur Keisaranna, Kónga tign og makt, og hváann herrastól, vegsemd vildismanna, veldis sæti og akt, allstadar undir sól, allsvaldandi einvalds herraun lénar, ollum þeim er slíkt hnossgjæti er fénad; um sídir allt þad sígur til horns ei þénar, en sjálf hans aldrei guddóms maktin rénar.

5. Andlega á þad víkja, ordin ritníngánna, talar svo tignin hærst: fyrir mig frægir ríkja, yfir fólki og eignum manna; losid um løndin glæst. Hvorjum Dróttinn heill og sigurinn géfur, hardráda úr vøldum nidurkéfur, en þolgóda í þeirra stad upphefur, þó af øllum reikníngskapar krefur.

6. Adrar áminníngar, einninn hér ad hníga. Svo spjallar spekin hrein: heyri mér høfdíngjar, sem hátt yfir adra stíga, og meta málagrein; dóms vald er af Droktni ydur feingid, dyggilega mun eptir verda geingid, af honum, hvørnin høndlad er vid meingid; hætt er ydur ef úrskurdina reingid.

7. Greinarmun ad gjøra, góds og ills í dómi, er heidur og hugvits frægd; úr skuggamálum skéra, med skilaréttum dómi, þad temur trygdar nægd; en jafnframt fylgist velsemd ad og vandi, voldid hefur þad herrum opt ad grandi, þeim sem

áttu ad stýra lýd og landi, ef løgsøgn voru þeir ílla medfarandi.

8. Mun því miklu varda, ad mektar fólkid haldi, í hugskots høndum sér, á traustum trygda kvarda, sem teiknadur húss á spjaldi, þeim fyrir augum er; svo røksamlega rád sitt kunni ad mæla, vid reglu þá sem eingann einn mun ;tæla, og gjøri hvørki Gud né menn ad kæla, gædínga held eg reikna megi sæla.

9. Því sá er til sælu fæddur, sem sæmdist hér í heimi, heidri og hárri makt; dygd svo gódri gjæddur, hann glæpist ei á seimi, né veraldar volsi og prakt; og lætur Guds ord leidtoga sinn vera, lærir ad tala satt og gott ad gjøra, med audmýkt sannri ædri tign ad bera, úr øllum málum réttvíslega ad skéra.

10. Fólks forusti slíkur, frægur verdur á jørdu, en gédjast Gudi best; herrum helgum líkur, sem hug sinn lítum vørdu, og hlutu mæta mekt: sem Jósep, Móses, Jósúam tel eg þridja, Jepta, Gedeon, Barúkk, Mavde nidja, Samúel, Davíd, Salómon kunni ad bidja, og sig vid Drottins nád og sannleik stydja.

11. Høfdíngs madurinn hlýtur, ef hávegs prís vill ná, ad vanda valdstjórn sín; reiknast nokkru nýtur, sem nafnbót hafa má, dygda frægd er fín. Tign hans hygg eg tvennt þad einkum hlýdi, ad

taka í fyrstu vakt á sjálfs mannprýdi, svo meira hafi enn metord yfir lýdi; á makt er vísast annars lítid ridi.

12. Audkéndur á ad vera, yfirvalds sóminn hái, af fleira enn dýrri drakt; álit ytri kjøra, allitid forslái, ad teikna tignarmakt; herrar skulu sig heidursverda kynna, med hefdarríkum forprísdyga sinna, Prísvar eru þær þrjár sem eg vil inna, í þeim er fólgin gjørvøll stjórnin svinna.

13. Fyrsta foríngjanna, og frægsta manndád er, ad hrædast himna makt; þad ollir audlegd manna, en illgjørdunum ver; (sem opt er ádur sagt) gjørist þar af gott og rólegt hjarta; géfur huginn, rád og speki bjarta; gjædíngunum géd samlega mun skarta, gudhrædslan; um brest þarf ekki ad kvarta.

14. Segir í signudu riti, Salómons andinn mæti: ef víkur vondskan frá, fylkirs frídu augliti, med føgru dóms réttlæti, stødvast stóll hans þá. Fyrir Davíds munn vor Drottinn segist snúa, ad dygdaríkum sem í landi búa, þídu augliti þeim sem á hann trúa, þar hann hótar stoltum burt ad skúfa.

15, Grein sú gudhrædslunnar, gét eg ad fegurst sé, sem vex af vænstri rót, þegar ad rítarunnar, rækja Guds musteri, og helgra manna mót, sem Davíd gladur Drottinn tilbidjandi; því

drýgdist med honum vitsku og spádóms andi; og Salómon medan sá vid villu grandi; sama er skrifad um Hiskiam grátandi.

16. Iþrótt yfirvalds sjétta, adra eg forsjá nefni, sem holl sé og hreinskilin, þá valdsmenn vitsku rétta, í vanda hvørju efni, halda og hyggindin, sem dæmi er Salómons Davíds sonar hins vísa, drottníng sunnlendsk speki hans nam prísa, høfdíngjanna hugsvinnu auglýsa, hagyrkjumenn, og søgurnar ásýsa.

17. Sérlega vel þad sómir (Sírakk þanninn tér) þá herrar lýds og lands, forsjálir eru og frómir: frægdirnar aflar sér, hugvit høfdíngjans; en í því landi ekki er gott á báda, óvitinn sem fyrir hefur ad ráda, varla þarf þar vænta gódra náda, hjá veslum mun þar harla fátt til ráda.

18. Þridja yfirvalds æra, er ad skrafa fátt, (svo hefur Sírakk kénnt) í hvørju grannt ad heyra, og hvískur gjøra uppskátt, ekki er herrum hent, því heimskur er sá sem hjartad ber í munni, en hygginn geimir ord í vitsku grunni; fleppni máls ei flýtur af gódum brunni, fór þeim mørgum vel sem þegja kunni.

19. Af rædunni hefur mann heidur, ef hún er í einfaldleik, stillt og stødugleg; en ordskár lýdur er leidur. Hún lingva margann sveik, og leiddi á lasta veg; hneysa er ad hreifa leyndum søkum;

þó heyrt hafi menn í réttum trygda møkum; hvepsinn einginn hófst á gódum røkum; heilsmídirnar snúa þá saman bokum.

20. Hid fjórda (þegar ad þegja, þénar ei yfirmanni) þá er ræda rétt; og øll sín ord ad hneigja, eptir fullum sanni, en fordast fals og prett: lígin er einn ljótur ærulekkur, lands forgift, og skadlegur físlsku hvekkur; fjandans var þad fyrsti og versti hrekkur; frómum mønnum aldrei verdur þekkur.

21. Hjartad hjá manns barka, af heidnum fordum var, málad meistaradóm, svo skyldi æ meiga marka, mannlegt hugarfar, af hans rædu og róm; Arístótelís úr svo rédi skéra; ærlegum skal þad tvennt til sinnis vera, slærd og lígi fram ei sjálfur bera, og falskar túngur uppvísar ad gjøra.

22. Yfirvalds fimta ágjæti, og ædsta prýdi tjest, hógvært hjarta þel. Skartar lítilæti, á landsforíngjum best, þó flestum fari þad vel; Drottinn vor med dýrdar breitni sinni, dýrdlegana tel eg hér á minni, med orda tilltekt einnin þar ad hlynni: sá ypparsti skal þykjast hvørjum minni.

23. Dreissuga Drottinn lækkar, og drífur úr tignarsæti, hætt er hrøpun sú; hugljúfana hækkar, hvørra lítilæti, hann lofar líkn og trú. Fjandinn sjálfur og Faraó Kóngur sukku; forsugir allir

þeirra minni drukku, uppbláſnir vid audmjúkum ei hrukku, því ærugirndin tapar hvørs eins lukku.

24. Dómara dygdin ſjøtta, er dádaríkt bindindi, drykkju dárlegrar, og hóflega hold ad metta; því heilagt ſtødugl ndi ei nær inni þar, ofneytſlan ef yfirrádin hefur, alla koſti manns hún nidurkéfur, rád og vit í rænuleyſi vefur, réttſýnina undir trøppum grefur.

25. Vei þeim ſem ad ſvelgir, (ſegir Guds atkvædi) ſterkann véla veig, þar til villta velgir; þad volkar mannſins ædi, og leidir í laſta ſmeig. Vitſkan ſegir: variſt þér ad ekki, vitid frá ſér ydar Kóngur drekki, og landsdómarar, ſvo laga réttinn hnekki, eda lítilmagninn eingann málſtad þekki.

26. Valdsmanns ſjøunda ſvinna, ſem ſtórmønnum hæfir, fridſemin er fræg; ſæmileg ſyſtir hinna; ſvælur yfirgnæfir, ljúf og lyndishæg; vini ſína ættfærir hún alla; unnuſta hennar má Guds ſyni kalla, til deyrdar ſem aldrei máli halla, egndir verda þeir til heiptar varla.

27. Salómon ſegir: fridur, ſannleikur og ágæti, ſem þegnum prátt hjúkrar, ſtyrkir betur og ſtydur, ſtórríkt Kóngs háſæti, enn rigſett réttarfar; leyfilegra er løgſagnara, ad mýkja, enn láta hardúd yfir í dómum ríkja. Øllum ber í nád=

arveg ad víkja; valds manninum má vid fød-
ur líkja.

28. Ágirnd eiga ad hata, adilar réttind-
anna, í áttundu grein; med følskum fjár á-
bata, slí sinn aumann granna, ekki er æra nein;
því gírugir, bædi Gud og menn þeir styggja, gjøra
sér mein og samvitskuna hryggja. Dómurum
lands, og dýrdlegum ríkis tiggja, Drottinn bannar
fémútur ad þiggja.

29. Því audurinn stodar eigi, ef af mann-
dygd er, hjartans hyrdsla tóm; á hádum herra-
degi heimtast reiknings kver, og Drottinn nefnir
út dóm. Fegri er þá fridur í samvitskunni, enn
féd sem brennur upp med verøldinni. Ábati stór
er med gudhrædslunni, ad allir med sitt bíti næg-
jast kunni.

30. Lofstír landsforusta, læt eg níunda heita,
svo fordist skadlegt skrum, aldrei á ad hlusta,
enn eptir sidur leita, fregn hjá fréttber-
um: því flestir þeir sem fatskann róg samhylltu,
ad fornu og nú heitum sínum spilltu, sjálfa sig
frá sannleikanum villtu; en saklaus fékk af voda-
lega biltu.

31. Fleppin flærdar túnga, af fjandanum kitl-
ud er, ad sturla fagrann frid; skaudum út kann
únga, í ónád stofnar sér, þó hyllist hennar sid,
því eyru sín sá ofmjøg nidurnídir, audtrúa sá róg-

burdinum hlýdir, á Rugguſtodum ruſkaſt vid miſ-
klídir, og ratar kannſké bølvan fyrir um ſídir.

32. Saurgadiſt Sál því fordum, ſaklauſum á
dreyra, hins klára kénnidóms, ad tál = hlýdinn trúdi
ordum, og terrti ad rógnum eyra, Doegs dreings
ófróms. Fleiri dœmi fáſt, en eitt má duga. Fróm-
ir herrar ſkyldu vel athuga, í munn þar komi ei
meinleg eiturfluga, ſem margann lét af ſannleiks
vegi buga.

33. Dygda djáſnid bjarta, med dírlegum perl-
úm níu, hér meiga herrar ſjá, ſem betur í brjóſti
ſkarta, enn blómlegir ſteinar tíu, í kórónu kolli á;
því hvad ſtodar vondann høfdíngs nafn þó beri,
og Heródem, þó glóadi í ormaſkéri: ſjúku ljóni er
ſœlli liſta héri; ſyndarar liggja undir einu peri.

34. Annad athuga efni, er embœttiſins ſkyldu,
ad gjøra í gódri trú; tvenna til eg nefni, er tign-
armenn uppfylltu, œrlegir ádur og nú; ſú fyrſta
og helſta er høfdíngs regla í landi, hreina dýrk-
an Guds ad ſé ſtyrkjandi. Eſekías var ád-
ur ſvo gjørandi, aptrad fékk því margra ſálargrandi.

35. Í kirkju Kriſts ad þéna, þó Kóngs hafi
eigi makt, til er trúad þeim: ſtjórn og ſtyrk ad
léna, og ſterka taka vakt, á løgmáls tøblum tveim.
Móſes ſjálfur mátti ei Guds ørk bera, né matar
fórn med ſinni hendi ſkéra; af voldu ſlekti vígja
lét til þeſs Séra, vildi ei Davíd neitt ad offrum gjøra.

36. Sóma embættum settum, saman má ei fleingja, því Gud yfir øllum er; blessar hann bádum stéttum, bann er ad vilja reingja, Skaparans skikkanir. Svívirdíng var þad Sál, en eingin æra, þá sjálfur gjørdi ím fyrir Gudi ad færa; af Usíæ dæmi líka má þad læra, sem líkþrár vard, þá ofdirfd gjørdi stæra.

37. Veraldlegt vald skal unna, veita kénnimønnum, og forsorgun þeim fá; bevara bóka runna, fyrir bana og vondum grønnum, en villu víkja frá, svo andlega kirkju orduna þeir haldi, sem er tilsett í fyrra Mósis spjaldi, og loga meigi ljós í Herrans tjaldi, landsfedranna undir skykkjufaldi.

38. Hirdstjórum ber ad hlýda, helgri lýdskénníng, og Guds síns geima løg; stroffunar lectiur lída, og lofa vidrétting. Hér til má þad mjøg, Theodosi tignar dæmi hvetja, vid tiptunarmann ei vildi kappi etja, er keisarann gjørdi af kirkju út ad setja; kraup fyrir Natan Davíd voldug hetja.

39. Eins og ádur fordum, áttu Kóngar ad vera, ad skikkun Skaparans, lesnir í løgmáls ordum, svo lærdu vel ad gjøra, vid Gud, og lýdi lands. Jósúa sér þad lét í eyrum loda, því lisdi hann frí vid øllum sálar-voda. Helga skipan hætta er yfirtroda, herrum gagn er Mósis reglu ad skoda.

40. Ønnur skyldu idja, sem yfirvaldi ber, reikna eg réttindin, til sigurs og sæmda ad stydja; sóma-

legra þad fer, enn ríki rángindin. Hún justitia er jafnadargjørn í málum, játar aldrei yfirvarps blóma hálum, hrøsun fordar høfdíngjanna sálum, hvad eitt vegur gløggt í metaskálum.

41. Mundángurinn metur, málminn allann jafndýrt, ef høfginn hallt ei fer; réttvís sér þad setur, semja otkvædi skút, þó menn séu misjafnir. Sólin dreifir sama hita og skyni, ad søørtum leir sem rauda gulli og tini; í máls úrskurdum má ei gá ad kini; vid misgunstiga høndla eins og vini.

42. Laganna formenn frídir, med frjálsu gudir heita, og synir sannleikans; þeim af hjarta hlýdir, heilags réttar leita, ad dýrdar dæmi hans, sem ædstur situr í einvalds tignar sæti, allt dæmandi med nád og réttlæti; meina eg tvennt þad máta lokin bæti, en misklídir og áfríur uppræti.

43. Rádin Ritnínganna, rétturinn framar enn makt, vilja ad vidgángist, og inntak eidspjallanna, sem út hafa gudir lagt, er æra ad uppfyllist. Drottinn sagdi: dæmid rétt med sanni; dugnad veitid niðurþryktum manni; aflagaborin ekkja ei mæti banni; ydar lid vil eg fødurleysíngjar kanni.

44. Júda jøfur hinn frómi, Jósafat kénndi þad, fyrr meir forvitrum: ydar dýrum dómi, Drottinn gáir ad; þér sætid sannindum, er Guds løgmál ydur ber ad tæta, af því meigid þér vel ad yt=

ar gjæta, með áfelli ei aumíngjana græta, né ó-ráðvandann vegna fjár réttlæta.

45. Á sama Sírak minnir: son minn hlíð þú á, frambnrð fátæks manns, meður mjúku sinni; og meiníng þína tjá, fyrir utan æðru og stans; fá-ráðum í föðurstað skaltu gánga; frelsa þann sem ofsókn líður ránga; ekkjuna láttu forsvar hjá þér fánga, farsæll verður þú þá dagana lánga.

46. Hyrðarar lands og lýða, laga-stjórnendur kallast, hollir, helst fyrir það, aðstoð þeir eiga þýða, þeim sem á vill hallast, að sýna í sérhvørn stað. Í heiðindómi herrar gjørðu þetta, hjálpuðu þeim saklausu til rétta; þess minni máttar meini vildu létta. Þá mann-dáð láti herrar um sig frétta.

47. Þeir mektugu ekki meiga, meir enn løg til-standa, of-þjá almúgann; en því sem yfirvøld eiga, eptir réttum vanda, svari sérhvør mann. Lofðum ber að láta sér það nægja, en lýðinn ekki með járn-oki að plægja, fátækir undan frekum gjøldum æa; Faraons tetur allar túngur rægja.

48. Mun það minnsta prýði, hjá miskunsømum øðrum, að reina á Róbóams svar: auma að lemja lýði, með logandi eitur-nøðrum, illrar ágirndar. Eingi lifir af einusaman brauði, (óseðjandi girnd er sálar dauði) á 'fallvøltum og fúagjørnum auði, sem ferst í sena, og heimurinn dygða-snauði.

49. Allt sér leyfast láta, løgunum þvert í móti,

er Herrans heidurs rán. Kreinkir kristinn máta, sú keisara réttarbót, sem diktar Diocletian; þó Cara-valds módir syni hid sama kénndi, síst vil eg það kristinn valdsmann hendi; og Demetrius þá fridar-bréfin brenndi. Bæn hins auma hafa á gott erindi.

50. Illum eiga ad hegna, yfirvalds herrarnir, sem løg tilstanda sterk; Guds vandlætis vegna, þeim vegur feinginn er, ad straffa vondsleg verk; svo undirfólk hafi ótta af þeirra sverdi, og almennilega fridur í løndum verdi, eins og Jósúa Akkan vid-urgjørdi; ætlad er til þeir stráka hópinn skérdi.

51. Løgmál hér ad herdir: hvervetna sá deyi, er fjørid forbraut sitt; vebandanna verdir, vægja meiga þeim eigi, og glæpi géfa kvitt. Sá sem þirmir søkudum vísvitandi, í sannann voda stofn-ar módurlandi; verda kann það gódum opt ad grandi, og géltur (máské) sjálfur yfirdómandi.

52. Er þeim órádvendni, og óleifilegt ad beygja, reglu réttlætis, sem Guds ord hafa í hendi, ef heidurs af þeir vegi, reika ránglætis. Hlotnast þar af hvad eitt øđru verra; heillir þeim og und-irgéfnum þverra; landid verdur lastfull hneirlis kerra, sem lífsøgur votta flestra vondra herra.

53. Þar Sódómæ sjóli ríkir, setst Gomorræ þegn, það optast merkja má; ef høfudid sundl-inn sýkir, senn mun harka og megn, limunum flosna frá. Hérmed yfir þeim herrans reidi

blífur, sem hagar sér líkt, og við Guð trygðir rífur; frá sér alla Drottins svikara drífur, dómarinn sá sem heitir, og er, eylífur.

54. Hótanir hans það segja: herrar ránglátir, sem brjóta boðorð mín, og løg á lýðum beygja, svo lítilmagnarnir, ræna$t$ rétti sín, þeir skulu mæta þúngu dóms áfelli; því trúi eg margur víkíngurinn félli, að yfir þá gékk sá úrskurðurinn hvelli, sem ofdramb þeirra lagði niður að velli.

55. Æfi sína endtu, aldrei neinir vel, tráſsugir tírannar; með lasta farmi lendtu, og løgðu saman við hel, sem inna annálar: hróplegt Faraons hræ í sjó kafnaði; Heródes kvikur af møðkum forrotnaði; Sál í stríði sjálfur sér banaði; að sviptir þeim var heiminum einginn skaði.

56. Jeróbó, Achab illi, eitrud Jessabel, Jóachim, Júlían, firrtust frægð og hylli; fyrir ofríki og vél, biðu bøl og smán: því illþíði þetta átti í ráni og morði, allra laga þrjótsku drýgja þorði. Oførum slíkra og illra dæmum forði, einvaldsherrann Guð með sínu orði!

57. Friðar faðirinn góður, fyrir sinn helgann anda, valdstjórn vandi um heim! svo af dygðum hafi hróður, og hyggi að sínum vanda, en hófliga safni seim, og Guð heiðrandi, góðann hlut framkvæmi, grandvarlega yfir allra málum dæmi,

sjálfra nafn með sanngirninni ræmi; siðvandir þá illu í burtu flæmi.

58. Ljúfir landsins feður, sem loflega herrans kristni, á fróni fóstrið hér, yður sé audnan međ-ur! aldrei ratið slísni! blífið blessaðir! síðsemd stýri sjálfra yðar högum! samvitskan hún fylgi réttum lögum! sannleiks friður sje á yðar dög-um! sveiið ekki frá yður þessum bögum!

59. Aður enn endast þula, yðar bið eg sóma, að kynnast kristin lög; klárann kapitula, sem kénn-ir að vanda dóma, iðkið opt og mjög. Þér of-dýrir þikjast skulud víti, þau drýgja sem nafnbót yðar lýti; guðlegra herra girnist síð og býti. Í góðu trausti þessu eg hér við hnýti.

60. Lesarar lýti á kvæði, og láti sem að sé, í sannleik samstafað; þiggi þörf heilræði, þó að sá aumasti, hafi þeim hreitt á blað. Veldis- gildann-Veg má braginn kalla: vil og skil eg til við herra snjalla, orða gjörð á hægra veg að halla, hírum stýrir gjæða eg fel oss alla!

# Þegn-skylda

## Hvað undirgéfnum ber að sýna yfir-valdinu.

1. Yfirvalds þegnar ærlegir, athugum gjörla hvað oss ber: vér meigum ekki hafa ofhátt, svo higg-

jum yfir vorn tillagdan mátt; í hollustu blífa hentar oss vel, med heidri og sátt.

2. Adri menn hefur Gud yfir oss sett, er vér Kóngs valds nefnum stétt; sverdid er feingid henni í hønd, ad hepta ósid og mál dæma vønd, orda sú heldur sig austur og sudur um øll lønd.

3. Þénari Guds er þessi valdstétt, þeim ad hlífa sem gjøra rétt, en ógna og hegna illvirkjum, ódádir hreinsa úr søfnudum; og er sú skikkan eitt af vors føðurs ástverkum.

4. Er þad því ekki ad óvana skéd, ad yfirvøldum sé maktin léd: helgir menn fordum høfdu yfirrád, héldu sig samt þó vid Guds nád. Kóngurinn Kónga Kóngunum lér krónu og lád.

5. Og fyrst þad er skikkun Guds vors gód, ad gjædíngar drottni yfir kristinni þjód, unnum heidurs hvørjum sem ber. Herrar bera vandann tigninni med, úr háum sødli er hættast fall, sem hafa menn sjed.

6. Víkíngar hafa og valdstjórn haft, sem vondslega misbrúkudu sinn krapt; og má vid búast ad muni enn svo, því mannhópur skiptist í flokka tvo; óbernskur þetta eptir tídinni yfirvo.

7. Í løgmálinu hefur Gud heitast vid, ad hrella á þann veg landsins grid: ad þjód sem hans bod ei þýdist fín, þjóna skuli verda óvin sín, svo þoli hún undir þeirra járnoki þúnga pín.

8. Járnsproti þýðir hið sama sá, er Sálmur Davíðs annar stíngur uppá, strýkur Guð með honum stórlyndann lýð, stormi þeim verður lítt undanflýð; helst er við þessu hætt nú á efstu heimsins tíð.

9. Kristur hefur spáð um kjør þau hørð: kvalníng þjóða mun sjást á jørð, fyrir dómsdag. Sú draum=þýðíng, sem Daníel gjørði, hefur sømu meiníng: það ytsta mun harðast einvalds ríki um aldar hríng.

10. Einn Guð ræður því allsherjar, hvør upp verður hafinn til valdstjórnar, Kóngaríki eru í hendi hans, og hjarta líka sjálfs réttarans; og þeirra sem hann hylla, því svo hljóða orðin sannleikans.

11. Øll þessi (segir Guð) eg hesi lønd, í lagt Nebúkadnesars hønd; hyrtíngar vøndur minn Assur er, þó ógéðfeldur sé sjálfum mér, í bræði kann eg bukka með honum baldinn landsher.

12. Sannaði Kristur að svoddan er ei skrum, í samtali sínu við Pílatum: ekkért vald þitt er yfir mér, nema ofan væri það géfið þér; einginn tekur upphefð neina af sjálfum sér.

13. Hvørt sem landstjórn er ljúf eða straung, látum oss ei kalla það skipti raung; hjúkrar oss Guð, ef hóglyndt er vald, en hørðug eru vort

synda gjáld. Öll yfirdrottnan íllsku á að vera apturhald.

14. Ef vér erum frómir, ei þurfum það, óttast sem hegnara í nokkrum stað; því sekk er það góðum til sæmdar og hóls, svo menn njóti þess verndar skjóls; vér eigum það ei undir øfugu falli auðnu bóls.

15. Með þøkkum eigum vér að þiggja slíkt, þá yfirvaldið er dygðaríkt, fóstrandi lýðinn með fríheitum, friðar sanngirni og réttindum; líkn þessa við Guð að láta ásannast með lofsaungum.

16. Því gott misðir margur fyrir glæpinn þann, hann gøfgar ei, sem hæfir, veitarann; og óverdugann sig ásannar, ástverks að njóta sem lánað var; verður hann njótandi vináttu Guðs sem hann vegsamar.

17. En ef menn fremja óśómann, óttast meiga þeir dómarann; fyrir honum hinn seki friðlaus er, forgéfins hann ei sverðið ber, í straungu umboði strøffun leggur á stór-syndir.

18. Opt ber það til að almúgi lands, uppreistrar reiði Skaparans, og með ófriði og íllum síð, aktar ei løgmál, en rífur grið; svo mjúklynda herra margur gjørir sér mjøg dælt við.

19. Skiptir þá um stafnbúa Skaparinn sæll, svo skikkast í góðs stað kroppur ódæll, sem alþýðu sparar ei með oki að þjá, óverdugur géld-

ur saklaus þá; en vel kémur snarpur vonda hryggi vøndur á.

20. Sannast og það hið signaða skraf, sem Salómon prédikaði forðum af: sætin dómaranna sá eg uppá, sjá, það var eins og rángletis krá, ørkuðu þeir sem þar órétt liðu æpandi þá.

21. Málefni fátækra mælt var ei bót, því mektugir stóðu réttindum mót; svoddan ofríki ærulaust er, það úrskurða Guðs orðs málsgreinir; Mikkeas talar um mótlíkann hátt, þá fjærlaga fer.

22. Hvað høfðingjanum er helst í vil, þar hneigjast rángsleitnir dómarar til, vonandi aptur á hans vináttu hót, voldugir fylgja sinni hjartans rót, løg beygjandi, hvøijum sem það er bøl eða bót.

23. Þegar nú geingur þannig til, af þverbrotnum herrum fást eingin skil, hneigsla sig heimar á hærðýðgi því; hvørgi neinn fyrir áløgum frí. Á dómstól og þínghól glæpir viðgángast meir enn mý.

24. Uppsátur þetta ei undrast má, þó óréttilega til meigi gá; líður Guð margt það hann leifir ei, því lagt er hér við forboð og vei. Það geingur svo til, sem þá geimarinn blygðar gætslu mey.

25. Tignarmønnum er því til trúað, að taka

vakt á því sem er réttskikkad: því er sem stéli þeir sjálfs úr hønd, saklausum þá þeir vinna grønd, hvar med þeir hróplega svíkja og saurga sjálfs Guds ønd.

26. Sá undirgéfni sem óréttinn leid, fyrir ædstum Drottni má klaga sína neyd, en hvørki forakta herradóms stétt, né høfdíngjum stofna meingjørd né prett; þad stendur til Guds ad stétta þeim ef stjórna órétt.

27. Lýdurinn má ei leggja neinn dóm, á lofdanna breitni, hvørt vond er eda fróm, því undirgéfinn hefur þar ei umbod til, eru þad réttu Guds løgskil. Ofskipad setjast í annars embætti er apa-spil.

28. Þó láti sér høfdíngjar leifast þad, sem landsins alþýdu er forbannad, og þó oss þegnum þyki þad strángt, þá er ómøgulegt ad kalla þad rángt; því margur hefur fyrir minni sakir høggist og hángt.

29. Hvør kann ad segja vid hilmir þad: hvad er þad gramur sem þú hefst ad? klerkdæmi er herranna kénnifadir, en Kóngarnir hafa Gud yfir sér; reikníng standa af rádsmenskunni regentum ber.

30. Látum oss þar fyrir sýnt og sagt, ad sæta hljótum kónglegri makt, og láta þegnskyldu ljúflega í té, líka þó drottnarnir hardrádir

sé; hvørjar jafnmargar hygg, sem ára þúsund í heims æfi.

31. Í æru ad halda yfirmann, er þad fyrsta þegnskyldan, sem koma á framm af ótta og ást; hinn ædri skal ad tigninni dáðst, med atvikum, hótum, ordum og lotníng, til auðmýktar tjást.

32. Hins fjórda bodords þad fyllíng er, fedrunum øllum heidurinn ber, Davíd féll fyrir Sál flatur á kné, og fleiri svo gjørdu í løgmáli; óvyrda bannar siklíngs sæmd med sérgjædi.

33. Ønnur þegnskylda hermist hér, hlídnin sem øllum gédfeld er. Undirgékkst skattskrift Augustí, øll verøld þó hún væri ný; óalinn var ei fyrir því bodi Frelsarinn frí.

34. Undirgéfnum í allann stad, ydur ber ad vera (Postulinn kvad) mannlegri skikkan, meiníng sú er, nijúklæti þad Guds vegna skér, Kónginum fyrst, og ødrum sem hann býdur út af sér.

35. Enn ef þér skipar yfirvald, þad almáttugs bannar bodorda spjald, géfdu ei Keisaranum Gudi hvad ber, gádu ad hvør þar ædri er; framar skal hlýda himna Kóngi enn holdlegum hér.

36. Herrum tveim einginn hugnast senn, hlýdid því Gudi frómir menn; heitara brennur hid helvítska bál, enn herranna steglur, eldur og stál; Drottinn hefur vald ad drekkja í víti dádlausri sál.

37. Yfirsetukonur þess Egyptska fróns, oktudu meir Gud enn bodord Faraóns; þénurum Sáls vard þad líka vel, þordu ei prestmenn ad slá í hel, Kóngs bod óvirdtu, kunni þad líka kjær Daníel.

38. Var því innsleigt í vell heitann ón, vinum hans þremur í Babýlón, hlýdni synjudu herrum þar, heidni ad fremja sem Gud bannar; prúdir gjørdu svo Postular Guds og píslarvottar.

39. Þessir hugsudu allir eitt, ad óttast ei þá sem hold fá deydt, heldur Gud sinn, og hefur þeim þad, til heilla snúist í sérhvørjum stad, veglegt lífsins virdta hnoss hafa víst høndlad.

40. **Þegnskyldan sú þridja tést, þolinmædi** sem umlídur brest; valdsmadur sá sem vandann ber, veiku manns holdi klæddur er, yfir kann honum einnin sjást, sem allmargann skér.

41. Ef fyrir ofríki einhvørr þjón, af yfirvaldi verdur, og lídi tjón, hann má gjøra sér í hjarta kátt: hafa þad fordum Guds vinir átt. Er þad saklausum æra ad verda útleikinn grátt.

42. Sáls leid umsátur saklaus og klár, sonur Jesse í heil tíu ár; barmadi sér Guds fólk í Babýlon; blídlyndur Jósep vard Egyptskur þjón; signudum Daníel sældad var fyrir soltin león.

43. Ef menn lída yfirvalds ójøfnud, á oss þad járnok leggur Gud, undirgéfna ekki skédur

þad órétt, þó illa gjøri sá sem lék þann prett; ofríki hefur vor ædsti Drottinn ei tilsett.

44. Af Gudi kémur vor ólukka øll, (undantek eg synd og laganna spjøll); rétt er vér umberum reidi hans, sem ránglæti straffar brotlegs manns; áløgur vara, því æ drýgist mælir ósómans.

45. Finnst í annálum frá því sagt, ad Fóka tíranni hafdi keysara makt; helgur mann klagadi hart med grát, hvar fyrir gudleg majestat, hafid hefdi þann heiptuga kropp í svo hátt yfirlát.

46. Ansadi rødd honum uppá þad, úr óskýnilegum nokkrum stad, slíkt væri makleg málagjøld, Miklagards fólki fyrir lýti margføld, þeim skyldi stýra sá þverbrotnasti í þeirri øld.

47. Ef tíranni fýsist þig til ad þjá, þó þér finni eingar sakir hjá, Gud vill þá reyna þolgjædi þitt, hvørt géfa vilt mótfall óvinum kvitt; fyrir grid þakka, og framvegis bidja um fulltýng sitt.

48. Hvad sem verdur ad vera í stad, viljugur skaltu bera þad; en bakspyrna ei mót broddunum; sem bágræk dýr undir kiyfjunum, óþol vilja af sér hrinda áburdum.

49. Sjórda þegnanna skylda eg skil, er skatta og tolla ad láta til; Kristur svo gjørdi, og kénndi út af sér: keisara gjaldid hvad keisarans er; uppheldis síns því ei meiga þarfnast yfirbodnir.

50. Einnin þó frekara útheimt sé, enn tilstanda réttindi, láta verda þegnar í lægra hald, og láta það til vid ædra vald; rángsleitni øll verdur ritud uppá Guds reiknings spjald.

51. Þénustan fimta þegnskyldan er, sem þeir meiga ei undan skjóta sér: því almúganum þjóna yfirvøld, opt setja fyrir hann laganna skjøld, kirkju eflandi kénnslu skóla, og kristin høld.

52. Hraustlustu Davíds hetjur þrjár, hans vegna vogudu sér lífs í fár, sækjandi vatn í Betlihems brunn, budlúngs vildu dreypa á munn; frásøgn þessarar hlídni og þjónustu er þjódum kunn.

53. Sjøtta þegnskylda, sú er hér nefnd, ad sérhvør fái Drottni gjørvalla hefnd, og yfirvaldi øllu óski góds, en ei taki sér þess skikkun til móds; því þessir sex púnktar áttu ad vera inntak ôds.

54. Í sendibréfi einu sankti Páls, svo tekur andi Guds til máls: eg vil fyrirbænir skuli ské, skynsamlega í kristninni, í allri þørf, en einkum þó fyrir yfirvaldi.

55. Gudlegu valdi Ísrael af, ágjætum Faraoni blessan gaf; med formi sama Sálmaskáldid, í sínum hefur bænum tiltekid; Gud géfi Kónginum gjæfu, visdóm og gódann frid!

56. Drottinn mun leggja líkn og lid, ljúfum þegnum sem stunda frid; hinir sem bregda bund-

inni trú, Belíals meiga vel nefnast hjú: því fallacía þá svikfsom saurgar samlags frú.

57. Vondra þegna varist menn ljót, véladæmi og grimmileg hót: einginn skal gjøra sig ad Achitophel, (aldrei hafa Drottins svik lukkast vel), gékk sá í snøru sem gram vildi láta gista hel.

58. Fordumst þann illa Símei síd, ad svívirda og lasta yfirvaldid; því bannad er fyrst í bodordunum: bøls skaltu ei árna gudunum; þeir þad gjøra, þurt fara ei af þeim svikum.

59. Drýgja skyldi einginn þad djøfuls afbragd, er Doeg framdi þad lýginnar flagd, ad vinna þad fyrir vináttu og plóg, (víst meiga søgu skjædin kosta nóg) ad liggja í eyrum landsdómara med last og róg.

60. Andskotans þessi umbods þý, opt koma herrum vanda í, og spilla þeirra ljúfri lund; lygunum trúdi margur um stund; því vard Sál, hann sá ei vid þeim hælbíts hund.

61. Þegn má ei reynast þverbrotinn; því vard sá Egyptski bakarinn, heingdur, hann ad því uppvís vard, víst þadan af aldrei beid sitt bard. Ónád kóngsins afhendir mørgum æfiskard.

62. Aumka þú, Gud minn, þann ódæðra lýd, sem okid dregur á hvørri tíd, og umber stundum óløg og rán, og af illum herrum pínting og smán! ofþreytast lát aldrei ærlegann undirdán!

63. Géf oss þína nád og góda lund! svo gét=

um afþreyð þjáníngar stund, allt þar til Kristur endar vora pín, og afhendir ríkið føður sín; svo einn Guð sé allt í øllum, hvørs aldrei æran dvín.

64. Þegnskyldu nefni eg þáttinn brags, þó hann sé styrdur vegna ókénds lags. Guð styrki alla góða menn; géfi hinum náð að leiðréttast senn! eg bið hagorða í veg fœra øfugmælin.

# Bónda Braguŕ.

Um skyldu húsbændanna við sín hjú.

1. Hvør sem girnist húsbónda nafn að vera, hlýtur sjálfur nokkuð um að vera; flestir taka í føður-arf, með formennskunni vanda og starf, sem þar til þarf; fordild sína framm verður að láta, ef fara skal allt í máta.

2. Ef stýrimanni stjórnin bregðst í boða, stadt er bæði skip og menn í voða; því er sá heppinn það hefur lært, þeinkja um að sér sé fært, og vel við vært; vís er annars voveiflegur skaði, og von á kuldabaði.

3. Flestir vilja forða sér frá villu, svo frelsast meigi og géti sneidt hjá illu; en sá þarf gá að finni stétt, að sitja kunni þar inni rétt, því þúng og þétt, er ráðsmennskan, og reikníng þarf að standa, af regéríngar vanda.

4. Inni eg tvennt sem ad verdur ad geyma, eins og haldid sé um tvo stjórntauma: samvitska er hid fyrra fróm, framkémur hún med sterkann róm, fyrir drottins dóm; annad er mannord ágætligt hjá mønnum, sem ilmar af heidri sønnum.

5. Bregdst þeim ei sem ber sig þessu ad halda, blessan Guds og fridur um aldir alda; í heimi góda farnan fær; farsæld hans af audlegd grær, sem bú og bær; hjú og børnin hér af líka njóta, og hamíngju aldrei þrjóta.

6. Fyrir sjónir vil eg setja hér húsbændum, og sérhvørjum sem eru í þeim vændum, hvørnin þeim med heidri ber, hyggja ad því sem skyldugt er, og fallega fer; gódvild svo hjá Gudi og mønnum fái, og gódum ordstír nái.

7. Enn þó þyki erilsamt ad búa, almenníngur má því fullvel trúa, hússtjórn er ein heidurs stétt, af himna Gudi fyrst innsett, med rentu og rétt: Adam bóndi í Eden bjó hinn fyrsti, ádurenn heillir missti.

8. A ærlega féingnu eiga menn sig ad næra: af Adams slisum méiga þad bændur læra, ekki er slíkt sem óttast þann, ædsta Gud sem blessa kann, yfir bú og rann; og vera til frids med hvad sem hvør einn hlítur; í himininn kalla, ef þrýtur.

9. Herrann Kristur húsfødur réd kalla, þann

hærsta Guð sem skapaði veröld alla; opt á degi einum gekk, út af sínum dýrðar bekk, og fólk sér fékk, til verknaðar í víngarðs korni díru, og virðum lofaði híru.

10. Húsbændur þér heyrið til og skoðið, hér er ei til setu yður boðið, fyrst það drottinn fékst við stjá, fótgángandi um það að sjá, sem þörf var á; gaumgæfnin því gét eg að bændum sæmi, gott er eptirdæmi.

11. Akta skal mann orðu sinnar stéttar; af öllum vilja menn fá tölur réttar, því skulu lýðir láta af sér, leiða, það sem svikum ver, og sanngjarnt er. Ef skiptavinir að skyldu sinni gæta, þá skapast eingin þræta.

12. Í hústöbluna horfið búmenn góðir, af herrans munni svo þér verðið fróðir, hvörnin þeim sem heldur bú, hæfir að breita í ást og trú, við blíðið hjú; hvör það nam til hagsmuna sér færi, hinir ýngri læri.

13. Seggir vita að sjö eru vikudagar; svo margt er það búendunum hagar, við losflig hjú að láta í té, og líka þó þau missjöfn sé, sem opt má ské; sérhvör einn mun sína byrði bera, en sæmd er gott að gjöra.

14. Hjúi góðu húsfeður eiga að unna: híru og ást þó svo tempra kunna, að ei skal maðurinn aðhyllast, ambátt sína svo mjög fast, hann

lidi last, fyrir óvidurkvæma afrækt konu sinnar, en eptirlæti hinnar.

15. Forráda-menn skulu fólk sitt ad sér hylla, en flest verdur í gódu hófi ad stilla; ærleg gunst med sóma og sid, semur dúrleg bæar grid, og fagrann frid; hagar vel þeim hjóta saman búa, ad hvørr meigi ødrum trúa.

16. Abraham hann unni sínu meingi, Eleasar var hjá honum vel og lengi; hundrads kom fyrir herrans sjón, høfdínginn med sína bón, fyrir sjúkum þjón; fræg gaf Júdith frelsi þernu sinni; festum slíkt í minni.

17. Med hugkvæmni og heitum ástar þokka, hjúin fróm til góds er best ad lokka, svo sem fródur Sírak tér: son minn gódur, hlíd þú mér, þad hrapan ver; vinnumanninn verk-idinn og færann, vil eg þú hafir kjærann.

18. Hérnærst eiga húsbændur ad veita, hjúunum vernd, svo njóti þau fríheita, eptir løgum og landsins sid, sem lýdir nefna heima-frid, og húsbins grid; í søk ærlegri sinn frómann þénara, sæmd er ad forsvara.

19. Í þá meiníng voru þénarar fordum, og þernurnar sem sátu ad nedri bordum, grid-menn nefndir, greinir rit, gamallra sem fornt mannvit, sér færdu í nyt; húsbændur áttu ad halda fyrir þá svørum, ef hrekkja mættu þorum.

20. Samhljóðar það Síraks heilum ráðum: son minn! ef þú blífa vilt í náðum, dyggvann mann sem þjónar þér, við því öllu sem órétt er, þú vernda og ver; heita má, ef hann er borinn aflaga, hafir þú þar af baga.

21. Búmanns reglu birti eg þá hina þriðjú, bæar fólki að halda vel til iðju; erfiðið heyrir einum þjón, af tómlæti bæði hjón, og hjú fá tjón: með verknaði sá sem vill sig eingum hylla, venst að haga sér illa.

22. Skaparinn sjálfur og skepnur hans gjörvallar, í skikkun þeirri blífa úm aldir allar, settri yrju heldur hvør; hvað er annað mannsins kjør, eða kosta kjør, enn andlits sveiti, og einhvør dagleg mæða, eða með synd að snæða?

23. Hermt er það af heiðnum Keisara einum, hélt hann þar til sínum matborðssveinum, síðdegis anna að fara á jakt, og flugur að veiða, hans af magt, var svo til sagt; hégóma spil það hollara þókti vera, heldur enn ekkért gjöra.

24. Matinn þurfa menn og líka kvinnur, maklegur er hans hvør sem trúlega vinnur; náttúrunnar skaparinn skír, skinlaust vill ei svelti dýr, þá lurginn lýr, múllinn forðum mátti ei nauti verja, mat, þegar átti að erja.

25. Matseljurnar meiga ei leingur hýma, máltiðar þá líður framm að tíma; hátta prýði hent-

ar vel, helst þeirri sem bakar mél, og býr til þél; svángur madur súrra bindst ei orda, þá seint er farid ad borda.

26, Hreina fædu á hvørjum manni ad bera, hitt þykir mér ekki svarlegt vera, ef óheilnæmt er borid á bord, búrs má þetta kalla mord, og falsk-ann ford; en margt er þad sem máthákarnir lasta, má þó ei útkasta.

27. Hjúkrunar má ei hinum frómu synja, hrumir þó af kránkleik verdi ad stynja; góð ølm-usa gét eg ad er, Gud ad hafa fyrir augum sér, þá adþreyngir; líttstøddum ad lykja aptur sitt hjarta, mun lítt fyrir Gudi skarta.

28. Simta trúi eg forráda mønnum sæmi, (finnast þar til røk og heiløg dæmi), strøssun leggja á stráksskapinn, ef stirfinn gjørist þén-arinn, eda heimskur hvinn; hljóta þeir slíkum hnæfilyrdi ad velja, og hart um fyrir þeim telja.

29. Sírak talar um svoddan vonda þræla, sem menn gjøra opt í verkum tæla; kjørid er slíkum keiris høgg, kannské verdi á þeim røgg, og umbót snøgg; og er þá rádlegt ef þeir betrun játa, af ógn og hørku ad láta.

30. Ei má bóndinn eptir hæsta rétti, endurgjalda misgjørdir og pretti; Lútherus svo loflegur tér, lítt-fallinn til stjórnar er, sá ekki umber; ser því betur ad forlíkast vid meingi, en fúla ekki leingi.

31. Ef vórir þénarar við oss nokkuð brjóta, og vægðar girnast síðar af oss njóta, gáum þess, á himnum hátt, Herrann situr og tekur óss þrátt, í sína sátt; að sampjónum þó sultar eigum ræði, sýnum þolinmæði.

32. Hjá máttugum Guði mannvirding er eigi, (minnir mig að Postulinn þetta segi), í hans augliti er herra og þræll, haldinn jafn, sá rétt var dæll, og reiknast sæll; harðbýlum hefur Herrann gjört óþægja, sem hinum kunnu ei vægja.

33. Hæfir því að hepta sína bræði, hjóða þannin Síraks barna fræði: ólmur vargur, eins og ljón, er illt að vera við sinn þjón, eða verka hjón; af offlopanum ángrast bæar friður, og er það versti siður.

34. Húsbændanna held eg skyldu sjætta, hjú sitt meiga ekki um kaupið pretta: verka launa verður er, vinnumaður sá þjónar þér, og þrek afber; ekki er syndlaust inni því að halda, sem út ber honum að gjalda.

35. Í Levítanna løgbók má það finna, lifandi Guð hann talar svo til sinna: ei skalt draga undir þig, erfiðis launin vitanleg, og máttu mig, óttast, svo ei ójøfnuðinn sýnir, ellegar heillum týnir.

36. Sánkti Jakob segir í pistils spjalli, svik þau upp til eyrna Drottins kalli, þá hjúið er sinni hýru rænt; hjávik það þó þyki kænt, hefur

valla vænnt, vidurnefni, í vitnu Síraks máli, því vona eg einginn brjáli.

37. Bródir þess sem bana veitir meingi, er bóndi sá sem inniheldur leingi, kaupi þess er vel til vann; vondt er ad bera titil þann, fyrir mensk-ann mann; hinn mun (svo sem hvør og einn má trúa), á herrans fjalli búa.

38. Í sjøunda máta eg seinast greini í kvædi: sjá verda um þad húsfedginin bædi, til kyrk-junnar ad komi hjú, kristilega játi trú; því sídsemd sú, er Gudi dýrd, en gódu fólki æra; gott er ad vilja læra.

39. Vinnuhjúum vald hafa bændur eigi, verk ad skipa neitt á drottins degi, annad enn kyrkju fara á fund, fagrann rækja sálarmund, um messu stund; ótti Guds er upphaf bestu fræda, og and-ar mestu gæda.

40. Gudræknin á gott til fyrirheita, gagn er mest ad himnaríki ad leita, hér til vildi eg hefdi lyst, húsbændurnir sjálfir fyrst, ad kalla á Krist, á sunnudøgum, og sitt fólk med sér teyma, en sitja ekki heima.

41. Helgir margir húsbændur svo fordum, høfdu mestu virdt á Drottins ordum; sjálfur Abra-ham sig umskar, svo allt karlfólk er med honum var, og þénti þar; Kóngs-madurinn med kjæru fólki trúdi, og Kornelíus hinn prúdi.

42. Lútherus hann las í húsi sínu, loflegt er ad fylgja dæmi sínu. Barna frædi og bænir skal, bóklaus idka í sínum sal, og heilagt hjal; gét eg ad sá sem gjørir þannig breita, má gódur bóndi heita.

43. Lifandi Gud (sem láni rædur manna), líti á alla naudsyn búendanna, hvørra hann þekkir hús og nøfn, hjálpi hann þeim yfir salta drøfn, í sælu høfn! Kristur sjer yfir kotúngs raunir marg- ar, komi hann oss til bjargar!

44. Englar Guds fyrir øllum voda hlífi, and- inn helgur fordi styggd og kífi! hann útvelji hjúin dygg, ad holl sé bædi og ærutrygg, en ekki í- bygg; og yfirmenn þau ástir láti finna, en um- beri klæki hinna.

45. Bú- erfidinu blessan Drottinn veiti, bæri- legur svo verdi andlits sveiti! búksorg taki bænd- um frá, brjóstrúma hann gjøri þá, sem fénægd fá, aumum mønnum ølmusu svo tæri; af ordi Guds þad læri!

46. Ord mín sum ef ekki gédjast bøgnum, éska eg þeir dæmi eptir gøgnum; láti Biblíu lesa sér, líti á hvørt ei samanber, þad sett er hér; meina eg helst þad mig vid bændur sætta, og mun svo Leilau hætta.

47. Þrjóta hljóta þessi vers ad finni, þegnar fregni óst frá Snióskár mynni; sendann kéndann

Bónda-bragð, bragir hagir víki slag, svo líki, í lag; húsßins blessist hér með formenn snjallir! og heidrum Gud vorn allir.

# Húskarla Hagur.

## Um dygd og hollustu, sem verkafólk er skyldugt sínum húsbændum.

1. Þó mér þrálega leidist, ad þylja mærdar-skrá, eittsinn eg til neydist, í orda smidju ad gá; hvørt eitt hjúid mitt, heimtar kvædid sitt; konurnar heldur kjætast vid, þá kvøldvakan er stytt; best er ad bregda upp hljódum, ef betur líkar fljódum.

2. Nóg eru kímin kvædi, þá koma þau frá mér; held eg fegra frædi, þar fródleikur ad er, því margur módur-son, mælir og líka kon, í háum skóla hef eg ei lært, hér fyrir er ei von, eg viti vel hvad hlýdir; vorkénni þad lýdir!

3. En svo þad enginn segi, satt, né berji vid, ad viti ekki af vegi, vil eg einn gódann sid, kénna hjúum hér; hafid þid eptir mér. Til fullrar eignar fæ eg í hønd, fagurt sjónar gler, hollum heimamønnum, og hírum kyrkju grønnum.

4. Fyrst skal fólki kynna, fagrann skøpunar rétt; verknadur og vinna, var af Gudi tilsett; ádur enn Adam braut, idja nokkud hlaut,

þó án mædu líalaust, laradíst ekki af þraut; en nú er hinn súri sveiti, synda straff og þreyti.

5. Ekki hefur eina rentu, idjan haft hjá lýd, kauplaust þrælar þéntu, í þeirri fornu tíd, til erfds uppfæddir, adrir tilkeyptir. Sudur hjá Tyrkjum svo er nú enn; sama þannin skér, ánaudar okid draga, alla sína daga.

6. Hinir sem hýru taka, heita frelsíngjar, verda þó ad vaka, víst um annirnar; og eru þad hepp-in hjú, sem heppnast manndygd sú, ad sín vanda verkin øll, vel med dygd og trú; Kristur kallar sæla, þá kostulegu þræla.

7. Þó heimurinn hrekkja tryldi, (hafa þad margir frétt), vyrdi í veslu gyldi, vinnumanna stétt, dýrdin drottinleg. dæmir á annan veg: fyr-ir vorum sjónum lítid og lágt, líkar honum mjøg, hans eru hærri þánkar, heldur enn géd til vánkar.

8. Eru í Guds augliti, einginn húsbóndans, munur, ad mínu viti, og minnsta þénarans, því fadirinn fyrir sinn krapt, fyrst hefur báda skapt; Jesús sídan (játum vér), jafnt fyrir bádum haft, þegar sem þræll hann reisti, og þjódir endur-leysti.

9. Ødrum opt hafa þénad, ágjætustu menn, sem Gud hefur lukku lénad, lifir sú minníng enn: Ester lambátt var, eptirá krónu bar; úr þræl-

tóms Jósep þjarur komst, þraut, til upphefðar; n inkun er að minni, maður þó brauð sér vinni.

10. Einn sá er iðju háði, úngur Jakob fyrst, frægur að foreldra ráði, fór í eina vist, hafði í hendi staf, á hauðri beru svaf, hét á Guð, svo honum kom, himnum ofan af, vernd, og varð meg-andi, vel í framandi landi.

11. Harðbýlann þó hafði, húsbónda til sanns, sá með vélum vafði, og vildi kaupgjald hans, þoldi hann skin og skúr, skart bar ei né flúr, svo gékk nær í sjø ár þrenn, samt var dyggur og trúr; því gédjadist Gudi betur, enn gamla Labans ketur.

12. Fer því vel með fyrsta, fyrir hinn únga mann, þegar vill sig vista, velji náttstað þann, sem feðgin fróm og hrein, fýsa á mey og svein; børnunum því að byggir hús, blessan Drottins hrein, nærst guðlegum gjæðum, sem gésast ofan af hæðum.

13. Upptøk æ skal stofna, í ótta Skaparans, en áhyggjan ætti að sofna, undir skjóli hans; gakk við staf um storð, stydst við Drottins orð; hreppa muntu líkn og lið, líka níann forð, þar með gjæfu gista, ef gjørir þú bæn með fyrsta.

14. Hér nærst hjúin meiga, hugsa eitt og þrennt, húsbændur að þeim eiga, og er það føg-ur ment, að vita vel hvað ber, villast sjónlausir;

mundu aldrei ad mannspillast, þó misbodid sé þér, af Gudi góðs hvør nýtur, en gjøld fyrir vondsku hlýtur.

15. Ef yfirmenn fær þú fróma, og finni náir víst, þakkadu þennann sóma, þínum Gudi fyrst, í gøfugs gard og sal, giftu sækja skal; af þeim læra margt gott má, mannvit og svo tal; sá þau vilkjør virdir, um velferd sína hirdir.

16. En ef hjúid hlýtur, húsfodur ómildann, þiggur vanda og vítur, en vilkar ógódann; þad er reynslu raun, edur réttlát synda laun; þolinmædin þeinki eg best, þessi beri kaun, og bæn til Drottins bætir, bøl, sem manninn grætir.

17. Hvørt sem hæga edur styrda, húsbóndinn ber lund, yfirmann áttu ad vyrda, um hjávistar stund; þad er skylda þín, þekktu rádin mín, því Postulinn hefur Páll þad kénnt, í pistils rædum sín, hinum heillir þrotni, ef heidran sýna ei Drottni.

18. Hjá Malakíam svo mælir, miskunar fadirinn: þjónar þýdir og dælir, þéra herra sinn. Agar af því brá, ambátt sianis há, sína matmódur Saraí, sér óvirdti hjá, úr vænni víst hún flýdi, og var þad lítil prýdi.

19. Strákar opt sig státa, stórlyndir med sann, og segja sitt ei láta, svar vid nokkurn mann; drambs þá dárlegu ment, Djøfullinn hefur þeim

kénnt. Honum søkkti hrokinn fyrst, hefur hann fleiri brennt; eins sá ei vill farast, ofstækid má varast.

20. Hinn minni madur skal stilla, munn vid húsbóndann; forakt fer honum illa, og fors vid ædri mann: ef hvirsli er hærri tá, hitt fer betur uppá; sjálf náttúran segir til þess, ad svoddan ekki má, ofdramb eingann hækkar; audmýkt færri lækkar.

21. Annad eingu sídur, audsveipni eg tel; skylda er, Skaparinn býdur, skartar á øllum vel; þó ei þénurum síst, þegar hid sama er víst, ad hjú vid bodum húsbóndans, hugljúflega snýst; en teikn er á þrjósku þræli, þverúd og mótmæli.

22. Postulinn Páll í þremur, pistlum hefur þad kéant; Sánkti Pétri semur, um sømu ad skrifa ment; fyrir utan agg og prett, skal undirgéfin stétt, hlýda sínum húsbændum, hefur þad Gud tilsett, med svinnu og sidsemd góda, svarlegt ef þeir bjóda.

23. Gédjast Gudi sønnum, gøfug þessi dygd, hugþæg helstu mønnum, heims um alla byggd; þeim þó þørfust er, sem þenna mannkost ber; vid eingann nema Andskotann, illa kémur hann sér, sem rád sitt vel kann vanda, med vidrádlegum anda.

24. Heiløg ritníng hælir, hollum þjónum tídt,

og þeim út mikið mælir, miskunar verðkaup fríðt; hundraðs höfðíngjans, hirð var svo til sanns; sóktu øsnu svaralaust, sveinar Lausnarans; kérin í Kana fylldu, kjørnir í þá skyldu.

25. Blessað hnossið háa, er hlýðnin rétt kølluð, æðri enn altaris gáfa, ál'tur svo Guð; en þrályndann þrjót, þvert má hér í mót, grálegann kalla guðníðíng, goða fremur hann blót, sem reiknast galdra glæpur, gjørníngur sá er dræpur.

26. Þjónustan er hið þriðja, þørf er øllum sú, hljóta hjúin að iðja, heimtar þetta bú; konst og þrótt til þarf, að þreyta daglegt starf; fasteign þeirra frá eg að sé, sem fé taka ekki í arf, hér með heill og æra, á handbjørg sig að næra.

27. Með vinnu verður að borga, verkmaðurinn sitt brauð, hinum sem hann forsorga, og hafa þar til sinn auð. Hér með hugsi drótt, að heilsu og líkams þrótt; sjálfur Guð því léar líf, en lemstrar ei með sótt, að firðar ei þess freisti, að forsmá sína hreysti.

28. En hvør sem erfiðar eigi, og í ómennsku leggst, sefur á sumar-degi, seinna meir hann hrekst, út á vonarvøl, vesæll kannar bøl; svo hefur vitur Salómon spáð, að sár muni þeirra kvøl, sem leiðri leti unna, og látast ekkért kunna.

29. Það fjórða af heima hjúi, heimtir yfir-

mann, Þykir þarft í búi, og það er hollustan, sem þjóni og vansa ver, vitur og heilnæm er; af ást og trú við yfirmann, aflaga hvað sem fer, aptur í veg því víkur, við sinn aldrei svíkur.

30. Nabal illur átti, einn svo hollann þjón, er varla vita mátti, voða húss né tjón; húsfrú hermdi í stað, herfor gardi að; því svíðingur hafði sagt því nei, er sonur Jesse bað; var því bani búinn, ef bætt hefði ekki um frúin.

31. Svinnur Sýrlands kappi, svo fann heilsubót, var það helst að happi, honum þénti snót, komin af Ísraels ætt; um það fékk hún rætt, að spámaðurinn mundi í Samaría, sjúkdóm hans fá bætt; sveinar sögðu ei skaða, sig þó gjörði hann baða.

32. Höfum vér hér fyrir sjónum, heilnæm dæmi tvenn, hvörsu af hollum þjónum, hljóta yfirmenn, bæði lukku og lið, líka góðann frið; Guð gæfi enn að hefði hjú, svo heiðarlegann sið! mundi húsbændur hressast, og hvörutveggju blessast.

33. Labans góss sig græddi, glöggt á meðan það, Jakob frómur fæddi, hans fé og gætti að; hins sama vaið og var, vitur Pótífar, að fylgdi Jóseps verkstjórn víst, vöxtur auðlegðar; urðu og feðgar friðir, fullmeigandi um síðir.

34. Gésst opt gjæfa þannin, Guðs fyrir dygðug hjú; blessar búandi manninn, og borgar holla trú, þjónum eptirá, upphefjandi þá, svo giftu frægri,

gróða fjár; og gøfugum orðstýr ná; Salómon þetta sannar; sérhvør frómur kannar.

35. En augna-þénarinn illi, er útørmunar mein, við húsbændur sem hylli, hefur í eingri grein; mikið er bjargar bann, að búa við ótrúann; því aldrei er von hann siti á sér, að svíkja einfaldann. Skaði er að þuslegum þræli, og þó hann nokkuð kjæli.

36. Friði fólksins spillir, falskur undirdán; allskonar hrekki hyllir, hvinnsku, lygð og rán; þó svør hans séu blíð, og sýnist trúr við lýð, af ótta er það en eingri dygð; uppkoma svik um síð: dylst fyrir Drottni eingi, þó dragi á tálar meingi.

37. Svoddann þénari svikull, Siba fordum hét, var hann voða hvikull, við Mephiboset; Júdas lék af list, limskur forréð Krist; það ódyggva præla kyn, þessum vidlíkist, sem fara framm því verra, en forakta boð síns Herra.

38. Peinki nú þénarar frómir, og þarflig vinnusljóð, að fyrgreint fernt þeim sómir, ef fást skulu launin góð; heiður og hlýðnin sterk, hérmeð dagleg verk, heitir fjórða hollustan, hún er trú og merk; Kristur þegar oss þénti, þessu øllu nennti.

39. Heiður hann nam veita, og hlíðni æðri stétt; umbar andlits sveita, (allir hafa það frétt); voru svik til sanns, síst í munni hans. Lærið af mér

(Lausnarinn kvað, ljúfur, til sérhvørs manns), helgagt hugar ágjæti, og hjartans lítilæti.

40. Er það nú ei æra, að idka þessa ment, lifa við lund hógværa, fyrst Lausnarinn hefur það kénnt; um náðina vera svo viss, vandra í fótspor Krists, að fjölsinnuðum, þó vinni vel, vondur þykir hnyss, þar sem þegninn glaði, er þekkur í alla staði.

41. En þó ærlega svinnu, undirgéfni og trú, virði ei menn, né vinnu, við sín skyldu-hjú; sá sem situr hátt, sjer á lágt og smátt, umbuna mun alla dygð. Á fæðíngar nátt, með blessuðum blóma sønnum, hann birtist smala-mønnum.

42. Guðs Son góðann hirðir, glósar sig; því hann, undirdán óvirðir, aldrei trúlyndann, við vosi í vondri spjør, þó verði að skíla sér; á innra-manninum er það skart, sem augu Drottins sjer; maðurinn þénustu þiggur, en það að meiníng hyggur.

43. Þá réttarinn reikníng heldur, og ransakar sín hjú, og ærlegum endurgéldur, eptir dygð og trú, með ávarps sætum són, á sínum dýrðar tjón, allsvoldugur svo inna mun: eja gódi þjón! vel tókst vinnu smárri, í vegsemd sít nú hárri.

44. En þræll sem fé-pund faldi, føgur niður í jørð, og andsvør eptir á valdi, eigandanum hørð, varð fyrir herrans heipt, og honum niðursteypt, í

ytſtu myrkra óp og vein; illa var þá keypt. Gud oſs gódur fordi, grimmu reidinnar ordi!

45. Hér ſjá hjún illu, hvørs þau gánga á mis, ef ráfa í vondri villu, véla og þrályndis, eru løt og leid, (loddarar taki ſneid), ſem hallmæla ſínum húsbændum, þó hafi þau litla neyd; kémur þar opt ſem kallar, kjørum ſlíkra hallar.

46. Dád er beſt ad drýgja, dæmin elſka góð; ódygd alla flýa, eins fyrir menn og ſljóð; ef einhvør afvega fer, aptur ſjái ad ſér, hrædiſt Gud og hylliſt menn, þad heillanna upphaf er, hepti hønd og túngu, hrindi ſinni þúngu.

47. Gud til ſtyrki góda, grandvarlega ad ſjá! læri lítil-fróda, ſvo leidrétting meigi fá! þeim ſig misgá mjøg, midi á réttann veg! dándis fólk og dygdug hjú, Drottni befel eg! nemur ſá nokkur frædi, ſem nennir ad læra kvædi.

# Heyrenda Ljód.

Kvædi um Guds orda rækt, preſt-ſkyldur, og Kirkju hæverſku, ſem ſøfnudurinn er ſkyldugur um vegna dýrdar gudlegs nafns.

1. Kirkju børn mín komid góð, kénna vil eg ydur, víſindin, ſvo verdid fród. Vænnri er

øllum peninga sjóð, ótti Guðs og æruprýdd-
ur siður.

2. Lærið ydar sóma ad sjá, saudir Guds þér heitid; hiudarar eiga gløggt ad gá, svo gódu hag-lendi ei víkid frá; sæ'ir erud ef svoddan vitsku leitid.

3. Lærísveina Lausnarans, lýsi eg ydur vera, og áheyrendur orda hans; æra er sérhvørs kristins manns, nám og skilníng nokkurn med sér bera.

4. Hærsta Guds erud heimamenn, hjú og bords-fólk líka; hvørjum braudbít húslogin, hæfdi ad geima fyrr og enn, svo virdt komi fyrir veiting æruríka.

5. Hérnærst ydur herma vil, hvad hús = tablan mun greina: í þrjá stadi þau skiptast skil, sem skyldist þér ad láta til, vid kirkju = prest, og kénn-ínguna hreina.

6. Hei'og kirkja á **heimtur tvær**, ad hóp kristinna beyma: sú **fyrri** er ad **húss Guds vit-jum vær**; vera skal einginn sóknar bær, á sunnu-døgum ad sitji allir heima.

7. Løgskil þessi Herrans hús, heimtir af øllum mønnum. Ef hugurinn vor er hér til fús, hefur Gud medan umsjón búss; minni liggur makt á ødrum ønnum.

8. Davíd Gudi líkur í lund, lét þad af sér heyra, ad sín væri óskastund, ef hann nædi kirkju-fund; eins og hann þørf á eingu hefdi fleira.

9. Mesta gledi mér er þad (mælti hann ødru

sinni) nær einn vinur í nokkrum stað, nauðsýn þá fær ámálgað; hverjum bræður að helgu Drottins inni.

**10.** Ef til kirkju áttu skammt (ómak þitt er að minna) lát þér vera það tídt og tamt; trúi eg annars kvedi að ramt, ef lángt að komnir leita presta sinna.

**11.** En ef laung og líka ógreið, lýtst þér ferð til messu, hugurinn ber mann hálfa leið, holdi ei vorkénn slíka neyð; sálar gagn lát sitja fyrir í þessu.

**12.** Lánga reisu dýrðleg dró, drottníng sunnan af fróni, lattist hvørki á láð né sjó; losleg fýsn þar undirbjó, fridarins spekt að fá hjá Salómóni.

**13.** Vandra gjørðu vitríngar, veraldar lángt úr austri, til þess ljúfir lendtu þar, sem ljósið heims upprunnið var; tøldu ei spor, í trúnni geingu hraustir.

**14.** Blessað þetta ómak er, að iðka kirkju sína; en heima fastur á helgum ber, hróplegt teikn í enni sér; Gergesenus gjæta verdur svína.

**15.** Løgleg tek eg forføll frá, er finna afsøkun rétta; hittast munu þau harla fá, ef heilsu brestur ei strídir á, látum dul í djørfúng oss ei pretta.

**16.** Annann rétt eg reikna og tel, sem rentar Guds musteri, að kyrkju gaunguna kryddi vel, komendur fyrir utan vél, hreinhjartaðir hræsni ei með sér beri.

17. Þá erindis lokin ei fást góð, ónýt telst sú reisa; ógunst Drottins á sig hlóð, innan kyrkju sá sem stóð, fullur af drambi; fékk því yfir hann hneisa.

18. Guðs hús held eg griðastað, gott er þar að finnast, skvaldurslaust að skiljast að; en skömm er að, geysa út um hlað, á helgum dögum, og hugmóð á að minnast.

19. Við fylgjara sína Frelsarinn kvað, friðurinn sé með yður! gyðínga háttur því er það, þykkjur vekja í helgum stað; gey og urr er grimmra hunda siður.

20. Brullaups sal eg blómlegann tel, blessað messu inni; með friðar sáttmála fögrum vel, fullgjörir þar Emanúel, hjónaband með helgri kristni sinni.

21. Kirkjan er ein heilög höll, í Herrans náðar ríki; gérsemi hennar eins eru öll, útmála fyrir oss brot og spjöll, hins minna heims, sem meistara síns var líki.

22. Skírnar fontur og skrúði prests, skrifta dýrðlegt sæti; í kór er súngið kyrje vers, kirkju múgurinn svarar til þess, Amen, (já), með andvörpun og kjæti.

23. Af hástól skéður hinn helgi lestur; og hreinu á Guðs altari, brauð kat stár og bikarinn

bestur, bergir þar af Kristi gêstur, blessar prestur, en bidur fyrir sèr skari.

24. Gêstabod eda gildi slikt, ei gêfst í Kónga høllum, sem himneskum sè heidri vígt, hjartans sætt og blómarikt; lof sè þeim er léna vill þetta øllum!

25. Sidsemi er í hófum hent, hvørsu miklu fremur, í Guds húsi, þar gott er kénnt, svo gleimist ei sú himnesk ment? vel er þeim sèr væna hegdan temur.

26. Ljós þitt skína láttu þar, lýdir svo þad sjái; heilagt sè þitt hugarfar, heiløg ord og gjørdirnar, í heiløgum stad, svo heidran Gud þinn fái.

27. Prest skyldur eg fjórar finn, fram sem nú skal setja: képpstu ad hafa kénnimanninn, kjærann eins og fødur þinn, til óvildar vid hann ekkért lát þig hvetja.

28. Heidur legdu honum til, Herrans bodords vegna; þetta tvennt eg þig áskil, þrennum Gudi er slikt í vil; embættisins æru verdur ad gégna.

29. Ef holdlegur fadir ad oss á, ást og heidran bædi, sem kraunk náttúra er komin frá, og kjøtlegt edli er býr oss hjá; þó er sú skylda skrifud og sett í frædi.

30. Nú má sálusorgarinn, sannur fadir heita;

fyrir hans lestrs lagnadinn, lagast endurfædíngin: sonarleg atlot sómir honum ad veita.

31. Náms-menn fordum nefndust þrátt, nidjar Guds spámanna, þar þeir höfdu í heidri og sátt, helga fedur og unnu dátt, eins er ad merkja á órd-um póstulanna.

32. Þá Elíseus sinn lávard leit, hyptast hátt frá jördu, sín hann klædi sundur sleit, sorgin fast á hjartad beit, ó mínn Fadir! af ángri mælti hördu.

33. Sánkti Páll í sín hefur bréf, sett þá glósu vída: sónakorn mín hvörja eg hef, hjartkjæra fyrir utan ef, fædda eg ydur fyrir gudspjall-id blída.

34. Hvörr sem Födurinn foraktar, med forsi og illum vilja, verdur sá til vansemdar, vöndum mælir innsafnar; um andlega fedur eins má þetta skilja.

35. Sama kénnir Sírak þér; sannann Gud skalt óttast; og hans presta hafdu hér, í heidri, svó sem skyldugt er; lædóms strøffun lát þér aldrei þóttast.

36. Sendimadur sem brúdgumans bón, bar til festar kvinnu, og vors ástvinar er þarfur þjón, þess og hennar gédjast sjón, sem til er sendur; ef tekst honum allt med svinnu.

37. Nú er sálusorgarinn, sendimadur hins hærsta,

sá fridar engill fögnudinn, fer ad bjóda hvört eitt sinn, bréfberi réttur brúdgumans tignar stærsta.

38. O! hvad fridir fjöllum á, fætur þeirra eru, sem fögnud boda og fridinn tjá; fagurlega lýtst á þá, önd grátlegri í eymdadalsins veru.

39. En sá sem bréf og sendimann, sins Kon-úngs óvirdir, eda ástvinar, hvad skér hann? heiptast þeir vid gjörníng þann, en sannræn-íngurinn sig vináttu firdir.

40. Davíd Kóngur hefndi af heipt, á herrum Ammoríta, hans sem þjóna höfdu sneipt; og heimskulega vid þá keypt; ad hafna gódu, en hér fyrir raudu ad sníta.

41. Heiptug mun þá herrans makt, vid hvörja sem ekki sæta, hans þjónum, vid hvörja sagt, hefur hann svo: ef menn forakt, veita ydur, verda skal mér ad mæta.

42. Mósis systir María, fyrir mótþróun hon-um synda, veiktist skjótt og vard líkþrá, vorkynnt-ist vid hörmúng þá. Fleiri lesum vér presta hat-ara pínda.

43. Guds mann nokkrir gárúngar, gamlann nefndu skalla, Eliseum, en ad svo bar, ýgultann-ar komu þar, af Drottins hendi, og drápu þá gikki alla.

44. Hér í mót svo herrann tér: hvör prest-manni góda, ástar vidtekt audsýnir, andleg laun

úr býtum ber, en Guds ords þénara gagnlaust er ad hnjóda.

45. Þín skylda vid þínga prest, **Þridja** er sú, eg inni, gjor ei á þeim gjoldum frest, sem Gud vill honum tilleggist, vel honum ei þad versta úr eigu þinni.

46. Guds er skipan gømul og ný, gódur Páll réd inna: sá sem ordinu erfidar í, uppberi sína hýru af því; verka madur er verdur launa sinna.

47. Leidtogi sá oss vísar veg, varnar tjóni og føllum, stýdur þá, sem stumra mjøg; stjórn hans þykir nytsamleg, farlama og framandi mønnum øllum.

48. Svoddan leidsøgn lénadi þér, lesari Gudspjallanna; kristninnar hann auga er, undan þér hann ljósid ber, góds er verdugur greidi fylgdar-manna.

49. Enn hvør af nógu naumur er, og nísklega géldur presti, tæpt útstikar tíundir, treglega á hans naudsyn sjer; af álnum þess sér einhvør skamtar nesti.

50. **Fjórda** skylda sú vor setst, sem til eigum láta, sérhvør vid sinn sóknarprest, segi, þó hans viti brest: hylja skal eg og hrópa í eingann máta.

51. Allir erum vér alnir í synd, einginn madur án lýta, vor edlis art frá æsku blind; á oss berum vér þessa mynd, eins prestarnir undir serknum hvíta.

52. Gud hefur menn til syndugа sett, sínum møkum ad kénna; um eingann høfum vér einn þad frétt, ad alla hluti gjørdi rétt; með skynsemd þarf ad skoda málstad þenna.

53. Einn kann segja: mér þad má, sem mínum presti ad breyta; beruskur er eg honum hjá, ef hann íllt lætur til sín sjá, hvarfyrir skal þá hlýdni hans ordum veita?

54. Ausa eg til þess: eingin er, afsøkun fyrir Gudi, ef rétt þú veit en rángt gjörir, þó rasan prests þú áhorfir; bøl er hjá honum ad búfa í óføgnudi.

55. Faríseanna (Frelsarinn kvad), fylgid ordum gódum, Mósis þá þeir standa í stad, en strákskap þeirra ei hafist ad. Illur Sál af anda spádi gódum.

56. Hvør sem ekki hneixlar sig, á hegdan annara manna, sæll er sá; eg segi fyrir mig, þó sé mín breytni óréleg, í Guds míns nafni glæpi eg øllum banna.

57. En svo sem Nóa synir tveir, Sem og Jafet gjørdu, blygdan fødur síns byrgdu þeir; bádir í stadinn meir og meir, blessadir urdu, bædi af himni og jørdu.

58. Þíns skrifta=fødurs skaltu eins, skýla misgjørníngi, og bidja Gud um bót þess meins; blessan Kristí sendisveins, svo hríni á þér á heimsins efsta þíngi.

59. Guds ords kénníng helg og hrein, heimtir

skyldu þrenna: fyrst, að eyru séu ei sein, á sæta að hlýða lærdóms grein; trúin mun af tryggri heyrn upprenna.

60. Mínir sauðir (Messías tér), minni roddu hlýða; item hvør sem hefur hér, heyrandi eyru, læri af mér; með orðinu kémur andagiftin fríða.

61. Einn kann seigja: eg vel kann, ikka helgann lestur, þó komi eg ekki klerks í rann (kalla eg mér það lítið bann); á eg nú bækur eingu síður enn prestur.

62. Hér til svarast: heilagt mál, er heyrt, enn lesið skírra, nær mun gánga géði og sál; í Guðs orðum er ekkért tál; finnst til dæmi fornt, og annað nýrra.

63. Blálendskur af lestri lítt, lærði í kérru sinni, en sem heyra fékk hann fríðt, Filippí máltæki nýtt, trúaður varð, og tók við vatns skírninni.

64. Jannann máta er þér skyldt, orðið Guðs að læra, ef þinn Guð gjørla þekkja vilt, svo þrennann fáir að þér hyllt, hvar af þín er heill og eilíf æra.

65. Hvør sem geimir Guðs síns orð, grandar honum ei dauði; sá er frí við sálar morð, situr æ við Drottins borð, í ljósi skjæru, og lifir á himna brauði.

66. Móðir Drottins geimdi góð, guðspjalls orð í hjarta, eignaðist hún þar sætann sjóð, samanbar

þau og var því fróð; blómi sá mun best fyrir Drottni skarta.

67. Hið þriðja heimtir kénníng klár, af kristnu øllu meingi: að sérhvør breyti síð og ár, svo sem í Guðs orði stár, liggur þar við Lausnarans vinfeingi.

68. Hinn helgi Jakob hefur svo sagt: heyrar-ar skulud ei vera, orðsins, sem fyrir yður er lagt, einúngis; því stærri makt, liggur á því þér lærið vel að gjøra.

69. Kénni yður þessa gløggt að gá, guðdóms sætur andi, og verki með yður vitsku þá, vilja Guðs að stunda uppá, svo yður hvørki synd né plága grandi!

70. Sendi eg greindann síða óð, sóknarfólki mínu; það heyranda heiti ljóð; hér af menn sér dragi í sjóð, bædi fræði, og bót á ráði sínu.

# Klerka Titta.

## Um það hvørnin Prestarnir skuli vanda sitt framferði, lærdóm og lifnað.

1. Kjærir brædur! heyrið hreina, heilags Anda áminníng, sem eg vil tjá, með hvørri gjøra hann vill eina, hjørtum vorum uppvakníng, og lærdóm ljá; hvørnin þeir sem ljós og lykla, lífsins bera,

og umbod Krists, ábyrgd hafi meira enn mikla, meigi því gá síns embættis.

2. Rádsmadur hvør þarf vel ad vanda, verkstjórn alla, og sína umsjón, í settum stad, svo reikníng kunni réttann standa, og reyníst trúr síns Herra þjón, þá hugad er ad; heidur og umbun hvør einn þiggur, af hærstum Gudi, er þetta tekst; en svikarans líf og sæmd vid liggur, sá í kvalir burtu hrekst.

3. Overdugann og allítt fródann, eg medkénni veikleik minn, um vandt ad tjá; þarfyrir bid eg Gud minn gódann, ad géfa hér til anda sinn af himni há, mér og ydur brædur blídir, ad besta rækjum æru og trygd; svo fáum laun og frægd um sídir, finnumst gladir í himna bygd.

4. Sánkti Páls í sendibréfum, er sídaform eins kénnimanns fyrir sjónir sett; ef þeim speipli gaum ad géfum, og gløggri meiníng Postulans, þá røtum vér rétt, beinleidi, sem gott er ad gánga, Guds og manna vinfeingis, en villumst ekki um vegu ránga; veiti oss Drottinn nád til þess!

5. Ef girníst nokkur Guds safnadar, gjætslu ad hafa, allgott verk sá undirbindst; til audrar sóknar, ellegar stadar, óvígdum því rétt er klerk, sem rélegur finnst, ad bjóda sig, og þar ad þjóna; þó án kapps og mútu fjár; því hvørs manns happ og heilla króna, í hendi og forsjá Drottins stár.

6. Helgrar kirkju hyrdir einum, hæfir ad vera fyrir utan last, og hrekja hád, án hnekkíngar æru

hreinum; svo á hann meigi ei bevísast, nein døkk ódáð. Merkrar trúar mæliþrædi, myndadur eptir vera skal, hans lærdómur og lifnadur bædi; lofstýr er þad kénnimanns.

7. Auga fullt af ókllárendum, annara flekkan hvørki kann, né sjálfs ad sjá; ef ørud er høndin í saurindum, ei hreinsar hún vørgugann, þad merkja má; sé kámadur kleikur af lýtum, klækir blinda hyggjurann, svo gáir ei vid vondsku og vítum, vernda sig og neinn annann.

8. Sá sem góda sídu kénndi, sjálfs þó nidur hegdan laut, til hneixlunar; hvad med klárri hægri hendi, hresti hann vid, þad vinstri braut, sú vørgug var; hverfu-steini hann er líkur, hvør sér eydir, en skérpir stál, ødrum þénar en sig svíkur, Esaú hønd med Jakobs mál.

9. Eins og þeir sem ørk fyrir Nóa, uppsmídudu, þéntu ødrum med hagleiks hind, en drukknudu midt í djúpum flóa, því Drottins sættu ei heilrædum, svo sæu vid synd: líkt er slíkum ljósberendum, (lesid hefi eg einnin þad), vid vørdur þær sem vegfarendum, vísa leid en standa í stad.

10. Vígt og helgad vatn med ordi, vegleg er þeim skírnar lind, sem þar í þvost, trúndum hygg eg tøpun fordi, tekur dauda úr erfda synd, þann illa ókost. Stundu sídar steipist nidur, strákleikinn ef Prestur inn er; þó margra sé hann mála smidur, meigin forakt steypir sér.

11. Eigin giftur einnri kvinnu', andlegur skal vera mann; það læknîng lér, ef hann ei með síð og svinnu, sitt hreinlífi geima kann, sem gløggvast er. Spámenn bæði og Postular prúðir, í prýði héldu sínum hag, að una sér við ekta brúðir, enn þóknast það Guði í dag.

12. Siðgóður skal sjáandinn vera, svo sem skipar Guðs løgmál, og manna með; hátta skipti hann á að gjøra, høgum sínum, fyrir utan brjál, svo athæfið, hentugleikum hæ'a kunni; við hvørn hann á í stað og stund', vel hagandi hønd og munni, og hegðan sinni á alla lund.

13. Trúlyndur í skapi skíru, skal prestmaður og géð = hógvær, með ljúfri lund, án haturs' og øfundar sýru, uppá það hann sé þeim kjær, sem þurfa hans fund; þó gremjast meigi, géð skal stilla, um Guðs málefni er allt annað, kjærmælin þau fara honum illa, og fráleitt skikk í sérhvørn stað.

14. Hentug er það hátta prýði, (heimskra manna áreiting, þó klappi kaldt) að Presturinn heldur lítið líði, enn laga krefji og stefni þíng, fyrir atvik allt. Með hógværð sæmir honum að gjæta, hvørsu Kristur og Postular, heldur viltu þegja enn þræta, þó tilreittir ófriðar.

15. Hylli og spektar hæfir að gjæta, honum sem friðar merkið ber, á mannamót, gjørast má hann ei gjarn að þræta, gambur vekur upp óvildir, og haturs hót, hvar við Páluð Presta varar:

prýdið ydur með eindrægni, eins og Krists eptirfylgjarar, og andlegir menn í fyrndinni.

16. Utboð má sá aldrei stunda, né ørløg nein, sem bodar frið og sjálfs Guds sátt. Lýdir hlakka lítt til funda, losa klerks, sem rýfur grid, með grellskap grátt. Bæn og þol eru betri verjur, (biblíugreinir slá af synd) enn høgg og grimmar orda erjur; ekki á þad vid saudar kind.

17. Viðfelldinn og vingjarnlegann, vísdómsgætir, sig skal tjá, við sérhvørn mann, raungóðann og reiditregann, en rembilæti sér í frá, skal hrinda hann, øllu góðu æ víkjandi; ómeinsamur grønnum sín, á hægra veginn hvad virdandi; hegdan þvílík fagurt skín.

18. Géstrisnin sem gjørir að hýsa, Guds vesl-ínga og framandi menn, skal prýða prest, kærleiks verk svo kunni auglýsa, kemur á móti umbun tvenn, fyrir utan brest, **hylli af Guði, og heidúr af mønnum.** Helgur Abraham og Loth, og ekkjur tvær með sóma sønnum, sagdrar rausnar høfðu not.

19. Abata girnd og aurasýki, andfúlt gjørir ryktiprests, svo kénnir af keim, ef hann mútum eptirsníkir, og embætti sitt hefur til þess, að safna seim, ærlegann kostnað í horfandi. Er blóðsugum skyldur sá, sem alla hluti er addragandi, en ekki tímir af nokkru að sjá.

20. Fjár ágirnd er alls hins illa, undirrót og

sálar=þrá, sem bruggar bann, afguða= = dýrkun, og eitrud villa, einginn þjónar Gudi sá, sem aurum ann; Iskaríot því gálgann gisti, hann gaf henni rúm í brjósti sér. Margur þad fyrir mammon misti, sem meira og betra enn heimurinn er.

21. Hugsvinnur þarf høkla meidur, svo hús= stjórn kunni, og þeirrar réttu reglu og ráð; þad er hans bædi heill og heidur, hvervetna þad takist rétt med dýrri dáð; því hvørnin má sá Guds húss geima, og gagnast ødrum út í frá, sem sinnulaus er sjálfur heima, og sitt gagn lætur fara sem má.

22. Bókarunnar blídir hljóta, børn sín hafa vel= øgud, med virdta hátt; ment og hirtíng má ei þrjóta, ad mønnum hlýdi, og óttist Gud í æsku brátt; því ekki er von þeir rønd vid reisi, ad rétta sidu kristninnar, ef úngar þeirra í agaleysi, uppal= ast til vansemdar.

23. Hirdirinn skal med vareygd vaka, varga á= hlaupi forda hjørd, þad frekast má; sem vøkumenn= irnir trúlega taka, í turnum uppi á borgum vørd, svo fjandmenn fá, ekkért færi fólk ad ræna, þó festi lýdurinn næturblund; andlegra er þad idkun bæna, um athugaleysis hættustund.

24. Kénníngasamur verdur ad vera, og vel les= inn í Guds ritnínga greinum sá, sem prests nafn vill med prýdi bera, og prédika hreina útleggíng yfir efni há; svo løgmáls réttur og gudspjalls gjædi,

greinilega frammsetjist, og sundurlidud fridarins frædi, sákunnugum innrætist.

25. Nýnæminn yfir naudsyn rétta, njósnandi um efni há, í lærdóms lyst, framar enn skipar skyldan setta, skal sig ekki prestur tjá: (því menn hafa mist, opt þeir ed vildu eptirgína, afhalds frægdum lángt yfir hóf, vitid bædi og virdíng sína) vögun sú er alltfór gróf.

26. Vígdir menn hafa vanda tvennann, (velgjord hvør sér finnur stad, en hrekkir hefnd) grandvarlega ad gjöra og kénna; af Guds eidsvørnum heimtist þad, ad heit séu efnd. Sálna þar fyrir sorgarar heitum, sæmd vidliggur ellegar gjøld; dáins eigum vér dreyra heitum, Drottni svara, ef vór eru vøld.

27. Vér af Drottni erum vardmenn settir, hann vill vér berum erindi sín, fram óttalaust, med áminníngum, allar stéttir uppvekjandi, hótum pínu med hárri raust. Hver sér lætur dád ei dvína, dóms ad þeyta lúdurinn, hann hefir frelsad sálu sína, í synd þó farist vondir menn.

28. Andlegur Dróttins útsendari, í hvørs munn ad Gud hefur lagt sinn anda og ord, veri prúdur vandlætari, voldugra ekki hrædist grimd, né Heródes mord; Jón Baptista óttadist eigi; ógnadi Nathan Davíd fast. Betra er nú, enn dóms á degi, fyrir dygdaleysi ad þiggja last.

29. Þeim sem eingra idrast glæpa, apturhald

sÿnda, og løgmáls bann, skal lesast brátt; hinum sem með ángri æpa, andlegur skal boða mann, Guðs blíða sátt, með hógværum ástar anda, og athuga sjálfur vanmátt sinn, hvurnin hann kann stöðugur standa, og steypi ei honum freistíngin.

**30.** Innan kirkju er øll vor skylda, í ordinantíu og bókum presta, skirlega skráð. Ef seremoníur svó eru uppfylldar, að sannrar kristni ekkért brestur, á reglu og ráð, nægist þá; það nýtir sanna, en nauðsyn er ekki løgmál sett. Sumt hvað kallast setníng manna, sú er ekki á einn veg rétt.

**31.** Utan kirkju skal kyrjari versa, kénna øllum heilnæm ráð, og hreinann sið; í hófum sýngja, biðja og blessa, bæta hópinn, stilla ónáð, en styrkja frið; huggun géfa hrelldum sálum, hvørt sinn þegar kémur á þíng, aðstoð veita ekkna málum, einnin styðja føðurleysíng.

**32.** Andlegur má ei þénari, Arons reglu fráskórast, svo sé til sanns, óhóflegur ølsvelgjari; ofdrykkjan hún saurgar fast, síðferði manns; hóflegt vín til heilsu bótar, heldur Páll sé leifilegt; en bílifis ístran ljóta, innra manninn þýngir frekt.

**33.** Valinkunnur að vitund manna, vera skal sá sem kosinn er í kénnimanns stétt, rómsæld prýddur góðra granna, að gagn-hrein breytni, svó sem ber, sé frá honum frétt; á þann veg, nær fyrir lýðum lýsast, loflegar dygðir kénnimanns, fyrir þá gjøf af fólki prísast, faðir og Drottinn himna ranns.

34. Reiknast má þad réttur Prestur, sem reynist svo til dauda trúr, fyrir Herrans hønd; og enn þó hittist einhvør brestur, ordu mun hann ei drifinn úr, ef drjúp er ønd. Í heimi þó hann sé hæddur og píndur, á himnum eru hans launin stór, vegsamlega mun verda krýndur, í vænum dýrdar Jórsala kór.

35. En fúl-lyndur med fanta sidi, og fávísleglegur, þó beri serk og bók í hønd; þad er sannur leigulidi, lítt rækjandi helgiverk og húss forstønd; heima-fúll og drykkju-dári, deilir um greidslur ørgans, og hrapar sá med hempu og hári, í hróp og snøru spottarans.

36. Veittu oss, Jesú! adstod øllum, og afplána vorn misgjørníng, vor Meistarinn kjær! hlífdu oss vid fári og føllum, fyrir þíns anda upplýsíng, oss alla lær! svo ad med alúd sé þitt fædum, og fyrirmynd gód séum þinni hjørd. Til þrenníngar í hærstum hædum, hveisi lof og þakkargjørd!

37. Klerka-Titta kvædid heitir, kémur svo til, ad lagid er stýrdt, en løgin hørd; merkid og hitt, ad mædid veitir, mannsaungs spil, af fjølnis urt, ad færa í gjørd. Virdid mærd þó vel ei hieti, verdugir hirdar, mér til góds. Amen, frómir æ Valete, allir í heillum Kristi blóds!